# UTANFÖR.

HÖFUNDUR:

KRISTJÁN JÓNASARSON.

---

EFNI.






Reykjavík.

Á forlag **Kristjáns Ó. Þorgrímssonar.**

Prentað í prentsmiðju Sigm. Guðmundssonar

1886.

# UTANFÖR.

HÖFUNDUR:

KRISTJÁN JÓNASARSON.

## EFNI.





Reykjavík.
Á forlag **Kristjáns Ó. Þorgrímssonar.**
Prentað í prentsmiðju Sigm. Guðmundssonar
1886.

Tilgangur bæklings þessa er sá, að gefa þeim, sem ekki hafa komið til útlanda og ekki eiga kost á því, dálitla hugmynd um ýmislegt það, sem þar er að sjá og heyra; hann getur og verið nokkur leiðbeining fyrir þá, er seinna ferðast utan lands. Í fyrstu ætlaði jeg að senda ritgerðina sveitunga mínum einum fyrir norðan, og stílaði hana því eins og sendibrjef, en þegar jeg var búinn að rita nokkurn hluta hennar, rjeð jeg það af að láta prenta hana, meðfram fyrir hvatir frá öðrum. Það eru mjög fáar eða engar bækur til á voru máli um sams konar efni, og flestir alþýðumenn eru ófróðir um það. Því verður mörgum starsýnt á nývirkin, er þeir koma út yfir hafið, og sjá að flest er ólíkt því, er þeir höfðu búizt við. Jeg læt orðfæri sendibrjefsins halda sjer, og vona að það þurfi ekki að spilla fyrir bæklingnum.

*Höf.*

---

PENINGAR, MÁL OG VOG.

1 £ ( = 1 pd. sterling) skiftist í 20 shillings og gildir um 18 kr.
1 shilling skiftist í 12 pence, gildir eftir því 90 aura.
1 penny (fleirtalan: pence), — — — $7^1/_2$ eyri.
1 yard er þrjú fet ensk eða 36 þumlungar.
100 þuml. enskir eru um 97 danskir þumlungar.
100 yards eru um $145^1/_2$ al.
1 míla ensk er 1760 yards, eða um $^3/_{14}$ úr danskri mílu.
1 míla dönsk er rúmlega $4^2/_3$ enskrar mílu.
1 ekra (acre) er ferhyrningur, 70 yards á hlið = 1152,6 □ faðmar danskir, eða nær því mitt á milli fjórðungs og þriðjungs á aðra vallardagsláttu.
1 pd. enskt er $90^7/_{10}$ kvint.
1 vætt ensk (Cwt = hundredweight) er 112 pd. eða rúmlega $101^1/_2$ pd. danskt. 20 slíkar vættir eru ein smálest (ton).

Alstaðar í ritlingi þessum er talið eftir danskri vog og máli, nema annað sje tekið fram.



Góði vinur!

Þegar við skildum seinast, baðst þú mig að skrifa þjer ferðasögu eða einhverjar frjettir úr ferð minni til Englands, sem þá var fyrir höndum, ef jeg kæmi ekki þegar til átthaganna aftur, til að segja þjer tíðindin sjálfur. Hvort sem jeg lofaði þessu eða ekki, veit jeg vel, að þú átt von á línu frá mjer, er jeg kom eigi þegar norður. Jeg má ekki láta þá von þína bregðast gersamlega.

Þú veizt, að jeg er ekki lærður maður, og get því engar vísindalegar skýringar gefið yfir það, er fyrir mig bar. Þú veizt og, að jeg er ekki skáld, svo að jeg get ekki skrifað neitt „uppskrúfað rósamál“. Þú verður því að gera þig ánægðan með það, að pistill þessi verður mjög hið sama og jeg mundi hafa sagt þjer munnlega, ef jeg hefði heimsótt þig einmitt núna.

Af því að þú hefir ekki komið til útlanda, verð jeg, áður en jeg skýri frá ferðalaginu, lítið eitt að lýsa fyrir þjer hvernig þar hagar til, einkum í borgunum, til þess að þú skiljir betur það, sem á eftir kemur. Þessa lýsingu miða jeg við það, sem jeg sá í Kaupmannahöfn, þegar jeg var þar fyrir fjórum árum, og eins við það, sem jeg sá á Englandi í haust sem leið.

Ef það er í góðu og björtu veðri að degi til, sem skipið siglir að landi, þá er ekki hætt við, að sá er siglir í fyrsta sinn til útlanda sje ekki uppi á þiljum,

1*

ef hann er heilbrigður. Enda ber þá margt nýtt fyrir augun. Á landi eru fagrir skógar og akrar, og landið ber þess vott, að hver blettur er ræktaður. Hjer og hvar hvílir móleit þoka yfir, en endur og sinnum sveiflar vindurinn henni svo til, að það sjest, að þar eru stórar borgir. Á stöku stöðum gnæfa reykháfar hátt í loft upp; þeir blása frá sjer móleitum reyk, sem dregur sig saman og myndar þennan þokumökk yfir borgunum.

Gufuvagnarnir sjást þjóta fram og aftur, oft með hjer um bil 40 vagna lest aftan í sjer. Þeir hverfa stundum inn í hæðirnar og koma að vörmu spori fram hinum megin. Á sjónum sjest mikill fjöldi skipa; skrúfuskipin og hjólskipin hamast áfram, knúð af gufukraftinum, en seglskipin líða áfram fyrir vindinum. Skipið, sem við erum á, heldur líka áfram; það er komið fast að höfninni. Ef það er gufuskip, þá er það sjálfbjarga inn á höfnina, en ef það er seglskip, þá er fenginn lítill gufubátur, svo sem á stærð við áttæring, til þess að leiða það að bryggjunni eða inn í skipakvína. Kaðlar eru færðir á land, skipið leitt á þeim og bundið við sterka stöpla af steini eða járni, og þá er hægt að stíga af því á land.

Tollþjónar í einkennisbúningi koma þegar fram á skipið, til að gæta þess, að engar tollskyldar vörur komist á land, og rannsaka þeir farangur farþega. Ef skipið kemur beina leið frá Íslandi til Danmerkur, þá mun ekki leitað vandlega, því að í Danmörk er ekki tollur á nokkru því, sem aflað er á Íslandi, en hafi skipið komið við á Englandi, þá er meiri gát höfð á. Í Danmörku er tollur á fjölda mörgum tegundum varnings, og á sumum býsna hár, t. d. 12 aurar á hverju pundi af kaffi. Á Englandi var jeg ekki spurður eftir

öðru en tóbaki og vínföngum, en nokkrar fleiri vörur eru þar samt tollskyldar.

Stöplar þeir, sem skipið er bundið við, eru festir í bakkann, sem liggur kring um skipakvína. En þessi bakki, svo og bryggjur allar og bakkar, þar sem borgir liggja að sjó, eru hlaðnir upp nær því lóðrjett af höggnum steini. Sjórinn er og dýpkaður fast að bakkanum, svo að þar er fulldjúpt fyrir stærstu skip, hvernig sem stendur á sjó. Þessi steinlagði sjávarbakki er nefndur á dönsku *Bolværk* eða *Kaj*, en á ensku *quay* (frb. kí). Á íslenzku hefir hann ekkert nafn svo jeg viti, enda er ekkert líkt þessu til á Íslandi. Í sjálfa hleðsluna við sjóinn eru valdir afar stórir steinar, og eru þeir límdir saman með steinlími (cementi). Það er furðulegt að sjá það, hve íþróttin er komin langt, er mannlegur máttur hefir getað ráðið við slík heljarbjörg; það eru grettistök vorra tíma, og gefa þau ekki eftir hinum eldri, en hafa það fram yfir, að það er víst, að menn hafa hreyft þau. Þegar frá bakkanum dregur, er enn allt steinlagt. Steinarnir eru með ýmsri lögun, oftast aflangir ferhyrningar, stundum um 10 þuml. á lengd og 5 þuml. á breidd. Þegar verið var að steinleggja, mátti sjá, að þeir eru um 6—7 þuml. á þykkt. Þeir eru lagðir hver við endann á öðrum, og mynda þannig beinar raðir, en hver röðin liggur við aðra, svo að allt er steinlagt. Þegar nú öll auð svæði í borginni: garðar, götur og torg, sem samtals nema fjölda mörgum dagsláttum, eru steinlögð á þennan hátt, má geta nærri, að það hefir kostað ærna peninga. Með tímanum slitnar steinlagningin svo af umferðinni og færist úr lagi, að steinleggja þarf að nýju.

Þegar dregur frá sjónum, komum við brátt inn á milli tveggja húsaraða. Bilið milli þeirra er kallað

gata, og sagt er að húsin í röðunum sjeu í þessari götu. Á húsahornum, þar sem götur mætast, er ætíð nafn götunnar með stórum stöfum. Með fram húsunum eru táin[1]. Það eru fjögra til átta feta breiðar stjettir. Eftir táunum má hvorki aka nje ríða, þau eru einungis fyrir gangandi menn. Jafnan skal víkja úr vegi til hægri hliðar, þegar menn mætast á táunum. Fyrir framan táið er rennan; hana ber nokkuð lægra en það, og lítið eitt lægra en sjálfa götuna; steinlögð er hún eins og gatan. Eftir rennunni streymir allt regnvatn þangað til það kemur að holu, sem þjett járngrind er yfir. Þar rennur það niður í jörðina og kemst í leirpípur þær, sem liggja undir götunum um allan bæinn, og allt regnvatn og skólp rennur um út úr bænum.

Í flestum stórum og gömlum borgum hagar svo til, að elzti hlutinn er í miðið, og hefir borgin vaxið út frá honum í allar áttir, eða að minnsta kosti á þrjá vega, ef hún stendur við sjó. Í gamla hlutanum eru göturnar oftast mjóar, hlykkjóttar, horfa í ýmsar áttir, og mynda stundum hvassan odda milli sín, en stundum gleitt horn. Húsin á þessum götuhornum eru því oft skringileg í laginu: þríhyrnd eða rammskakkir ferhyrningar, því að gatan er alstaðar látin vera jafnbreið, ef því verður við komið. Í nýrri hlutum borganna eru göturnar jafnaðarlega breiðar og beinar og liggja þverbeint hver frá annari. Það er miklu þægilegra fyrir ókunnugan mann, að átta sig þar, sem svo hagar til, og læra að rata leiðsögulaust um borgina.

Húsin eru öll af steini; hliðin snýr fram að götunni, einn stafn hlaðinn fast upp við annan, svo að eitt hús verður varla greint frá öðru. Hæð húsanna frá jörðu

1) *Tá* í þessari merkingu er fornt orð, og kemur fyrir í Sæmundareddu; af því mun danska orðið *Fortog* vera myndað.

upp á mæni er oft frá 30—40 álnir, og þau eru með 5 eða 6 gólfum; hvert gólf er um 5 álnir á hæð, að með taldri þykkt sjálfs gólfsins, sem um leið er „loftið“ fyrir þá, sem búa á næsta gólfi fyrir neðan. Þegar nú gatan oftast er að eins frá 6—8 faðmar á breidd, þá hverfur allt útsýnið og ekki sjest nema í heiðan himininn, eða þó ekki heiðan, því að oftast er nóg af gufu og reykjarsvælu. Því kvað Bjarni amtmaður: „Hafnar úr *gufu* hjer“, o. s. frv. Skrautgötur í nýjustu hlutum borganna eru samt oft frá 12—15 faðmar á breidd, og er útsýnið bæði rýmra og miklu skemmtilegra þar. Jafnmargar gluggaraðir eru á byggingu hverri og gólfin eru mörg (Etage = gólf).

Á neðsta gólfi er kölluð stofa; næst fyrir ofan hana er í Kaupmannahöfn nefndur fyrsti salur og svo áfram: 2. 3. 4. og 5. salur eða kvistur efst, ef húsið er sexgólfað. Auk þessa er oftast geymslukjallari undir húsinu. Ef kjallarinn er ætlaður til íbúðar, þá er hann venjulega ein 3 eða 4 fet á hæð yfir götuna, og verður stofan þá þeim mun hærra frá jörð, en þá er líka venjulegast enginn 5. salur.

Í miðri borginni, þar sem umferðin er mest, og einkum í nánd við hafnirnar, er það oftast, að annaðhvort stofan eða kjallarinn er hafður fyrir veitihús eða sölubúð. Varningnum, eða auglýsingum um hann, er þá raðað sem allra haganlegast fyrir gluggana, til þess að hver, sem um götuna fer, geti sjeð hve aðdáanlega góðar vörurnar eru og afar ódýrar. Í skrautgötunum eru búðagluggarnir ekki heldur mjög litlir; glugginn er að eins ein rúða úr allt að $^1/_2$ þuml. þykku gleri; það er nefnt spegilgler. Oft er rúða þesssi um 3—4 álnir á hæð, og 2—3 álnir á breidd, og getur kostað ein 3—400 kr. Það hafa verið stofnuð ábyrgðarfjelög einungis til þess að ábyrgjast þessar spegilglerrúður.

Lögun á húsunum er með ýmsu móti. Hjer skal að eins minnast á eina húsaskipun, sem mun einna algengust. Öll húseignin er þá fjórar byggingar eða fjögur hús, sem eru samföst og mynda ferhyrning. Í miðjunni er autt svæði ferhyrnt, sem nefnt er garður (Gaard). Húsið, sem fram horfir að götunni er nefnt framhús (Forhus). Þvert út frá því eru tvær miðbyggingar eða miðhús (Mellembygning), sitt hvorum megin við garðinn. Fjórða húsið er aftast, fjarrst götunni, horfir eins og framhúsið, og er nefnt bakhús (Bagbygning). Framhúsi og bakhúsi er samt alloft skift í tvennt, svo að húseignin er í sex hlutum.

Þessu lík var húseign ein, sem jeg hafði aðsetur í um tíma, meðan jeg var í Kaupmannahöfn; hún er talin No. 11. og No. 13. í götunni, en seld var hún sem ein eign um veturinn meðan jeg var þar, fyrir hálfa miljón króna. Í fyrstu virðist það undarlegt, að No. 12. skuli ekki vera milli No. 11. og 13., en því er svo háttað, að í flestum götum eru stöku tölurnar: 1., 3., 5., og svo áfram, á aðra hönd, en allar jöfnu tölurnar: 2., 4., 6., o. s. frv., hinum megin. Sá sem stendur í götunni þar sem tölurnar byrja, og heldur áfram þangað sem þær hækka, hefir allar jöfnu tölurnar á hægri hönd. Þetta er í flestu hentugra en að halda áfram: 1. 2. 3. 4. o. s. frv. annars vegar, því að oft þarf að lengja götu, og þá er hægt að halda áfram tölunum á báðar hliðar, án þess að eldri talnaröðin raskist. Það er og fljótlegra, að leita að ákveðnu húsi, þegar þannig er háttað, því að undir eins og búið er að sjá eina tölu á einhverju húsi í götunni, þá er auðsjeð í hverja átt á að fara til að finna þetta til tekna hús.

Þar sem framhúsin No. 11. og No. 13. mætast, er port til að ganga gegn um framhúsið inn í garðinn, og þaðan í öll hin húsin, en í framhúsin er gengið frá

götunni. Portið er að eins gegn um stofuna eða neðsta gólfið, og er bogmyndað að ofan. Húsalengjan er því óslitin fyrir ofan það. Í portinu hanga tvö stór trjespjöld sitt á hvora hönd; á þau eru máluð nöfn allra húsráðenda í húseigninni og hvar þeir búa. Við göngum rakleiðis inn í annað framhúsið, án þess að drepa á dyr. Þegar komið er inn fyrir hurðina, er þar dálítið ferhyrnt rúm, sem nefna má forstofu eða jafnvel uppgöngu, því að þar er ekkert annað en stiginn til að ganga upp á efri gólfin. Í stofunni er sín hurð á hvora hönd, og nafnspjald á hvorri hurð. Hvorugan þennan húsráðanda þurfum við að finna, svo að við förum upp á 1. sal, þaðan er stigi upp á 2. sal, og svo höldum við áfram þangað til við erum komnir eins langt og við ætluðum. Ef maðurinn, sem við ætlum að hitta, er ekki húsráðandi, og nafnspjald hans því hvergi á hurð, þá verðum við að telja hve marga stiga við göngum upp, svo að við vitum, t. d., hvenær við erum á 3. sal, ef hann skyldi búa þar. Í þetta sinn þurfum við samt ekki að telja, því að við höldum alla leið upp á 5. sal, sem er í rauninni sjötta gólfið og lengra verður ekki komizt. Alls eru rimarnar í stigunum 86, og hver þeirra er um ,7 þumlunga á hæð, svo að þetta gólf, sem við nú stöndum á, er rúmar 25 álnir frá jörð. Þá er portið $1^1/_2$—2 álnir upp að þakbrún, og svo allt risið. Húsin eru oftast krossreist. Á öllum gólfum er sín hurð til hvorrar handar, eins og var í stofunni, því að hverju gólfi eða sal er hjer skift í tvær íbúðir (á dönsku *Lejlighed)*. Dálítill renndur húnn eða nagli er framan á dyrastafnum öðrum megin við hverja hurð. Þegar tekið er í þennan nagla, þá hringir bjalla einhverstaðar inni í húsinu, stundum svo langt frá, að gesturinn heyrir það ekki. Vír liggur frá naglanum til klukkunnar, svo að hún hringir þegar tekið er í hann.

Á nýjustu húsunum er farið að nota rafmagn til þessa; það er þrýst á ofurlítinn tappa á dyrastafnum, og þá hringir rafmagnsklukka fjær eða nær fyrir innan.

Hverri íbúð í þeim hluta hússins, sem jeg er að lýsa, er skift í 5 herbergi, fyrir utan eldhús (Kjökken)[1] og búr (Spisekammer), sem eru að eins litlir klefar, og máttu ekki ætla, að þau hús líkist búri og eldhúsi á sveitabæjum hjer, þótt jeg nefni þau sömu nöfnum. Oft er þrengra í baðstofunum á Íslandi, en hjer gat verið um 10 menn í þessum 5 herbergjum, því að sum þeirra höfðu gólf á stærð við baðstofukytru, sem 5—7 menn verða að hýrast í, og vóru þó miklu hærri og loftbetri en baðstofurnar hjer. Þannig eru 12 íbúðir í þessum sjötta hlut af húseigninni, og eins er í hinum fimm hlutunum, eða alls 72 íbúðir. Ef þær 48, sem eru í aftari húsunum, eru eins rúmgóðar eins og þær 24, sem eru í framhúsunum, þá rúmar þessi eina húseign 720 manns. Íbúðirnar fram að götunni eru jafnan látnar vera rúmbeztar, því að það er mest sótt eftir þeim og leigan er hæst; það þykir skemmtilegra að geta horft út á götuna, og fengið að sjá sólina, þegar þess er kostur. Sum herbergi á neðstu gólfunum á aftari húsunum eru svo illa sett, að sól sjest þar sjaldan eða aldrei. Herbergin, sem út vita að götunni, eru líka stærri og vandaðri en þau, sem horfa út að garðinum; þar er eldhús og búr á bak við hin herbergin. Úr garðinum liggur hin óæðri uppganga, bakstigi eða eldhússstigi (Kjökkentrappe) upp gegn um öll gólfin. Hefir

1) Orðið „kokkhús“ er dansk-íslenzkt kaupstaða orðskrípi en ekki danska, þótt sumir álíti svo. Landi einn, sem jeg kynntist í Kaupmannahöfn, notaði þetta sem áreiðanlega dönsku, en fólkið hló að honum, hjelt þetta væri íslenzka og fór að kenna honum betra mál.

hann þetta nafn af því, að eldhúsin liggja jafnan næst honum. Leigan eftir íbúðina á 5. sal út að götunni í þessari húseign var, þegar jeg vissi til, 500 krónur um árið. Eftir stofuna eða 1. sal var hún 1400—2000 kr., og svo minna eftir því sem ofar kom í bygginguna. Miklu minni var leigan eftir íbúðir í miðhúsunum og bakhúsunum.

Erfitt er að ganga upp og ofan þessa stiga, en það er bótin, að það er mesta áreynslan í þessum stórborgum, það er að segja, fyrir þá, sem ekki eru erfiðismenn, því að með margt er þar hægra og skemmra tildrátta en við erum vanir heima. Ef t. d. lækni þarf að sækja, þá vill svo vel til í þessu húsi, að hann er á 1. sal; ef fara þarf í kaupstaðinn, þá er sín sölubúð á hvora hönd í stofunni, svo að ekki þarf út á götuna framar en verkast vill; ef koma þarf brjefi á pósthúsið, þá má láta það í kassa á húsveggnum rjett við götudyrnar. Slíkir kassar eru hingað og þangað í borginni. Póstþjónarnir tæma þá oft á dag, bera brjefin á pósthúsið og þaðan eru þau send um allan heim. Ekki þarf heldur að sækja brjefin og blöðin á pósthúsið; póstþjónarnir bera þau oft á dag um alla borgina. Hver ritstjóri lætur og bera sitt blað til allra kaupenda, sem í borginni eru.

Mikilvægt hagræði er það fyrir veslings vinnufólkið, að ekki þarf að bera vatnið upp þessa háu stiga. Vatnið rennur sjálft með þunga sínum upp á 3. og 4. sal, og í þessu húsi kemur það upp á 5. sal. Það þarf ekki annað enn að snúa lykli í hana, þá rennur vatnið svo mikið sem hver vill hafa, eins og þegar búðarmenn eru að mæla vínföng. Svo er varið, að vatnið kemur frá einhverjum stað utan borgar, sem hærri er en borgin sjálf. Ef náttúran hefir ekki sjálf gert slíkan stað,

þá hafa mennirnir orðið að gera það og hefja vatnið upp þangað með risavöxnum dælum. Þar rennur það inn í vatnsheldar járnpípur; þær kvíslast um alla borgina og eru látnar liggja svo sem þrjú fet niðri í jörðinni, undir götunum; þaðan kvíslast þær í hvert hús til beggja hliða. En mjög mikið vantar á, að þetta vatn sje eins gott og lindarvatnið hjá okkur. Jeg man eftir því í Kaupmannahöfn sumarið 1882; þá vóru þar miklir hitar, líklega þó ekki öllu meiri en venjulega. Vatnið varð þá mjög vont, svo að yfirvöldin ljetu rannsaka það. Fyrir nákvæma rannsókn kom það í ljós, að í vatninu var fjöldi af einkornuðum smáplöntum (Alger)[1], sem vóru alls ósýnilegar með berum augum, svo að borgarbúar vóru varaðir við að drekka það ósoðið. Þá hefði margur kosið heldur eina mörk af köldu, hreinu lindarvatni, hefði það fengizt, en að gefa 10—30 aura fyrir jafnmikið af öli, sódavatni eða einhverju því líku, já, og það jafnvel þótt vatnið hefði kostað eins mikið og ölið, eða meira.

Líkt má segja um andrúmsloftið í stórum borgum og vatnið; hvorugt er vel hreint eða hollt. Loftið er oft mjög þrungið þoku og reyk, svo að það er litlu betra að vera úti en inni. Fyrr nefnt sumar 1882 fúlnaði vatnið svo í skipaskurðunum, sem liggja sumstaðar inni í Kaupmannahöfn, að fýlu mikla lagði af. Þá skildi jeg fyrst til fulls, hvernig stendur á því, sem jeg hefi svo oft lesið um í bókum og blaðgreinum, að auðmennirnir flytja sig burtu úr borgunum á sumrin, og hafa aðsetur einhverstaðar langt upp til sveita. Þar hafa

1) Fróðleg ritgerð „Um bakteríur“, eftir landlæknir G. Schierbeck, er í Tímariti hins íslenzka bókmenntafjelags VI. árg. 1885, bls. 109—132. Þar er og minnst á *Alger*, því að þær eiga skylt við „bakteríur“.

þeir gott vatn, hreint loft og marga aðra sveitasælu, meðan óhollast er að búa í borgunum; en handiðnamenn og fátæklingar, sem lifa af daglegri vinnu sinni, það er að segja, allur fjöldinn, verður að hýrast kyrr í borginni. Miklu fleira deyr að tiltölu af fólki í stórum borgum en í smábæjum eða til sveita.

Hjer, á voru kalda og afskekkta landi, höfum vjer þannig í fyllsta og ríkulegasta mæli, oftast án nokkurs kostnaðar eða fyrirhafnar, tvö helztu skilyrðin fyrir öllu lífi á jörðunni. Maðurinn getur ekki lifað án loftsins eitt andartak, og loftið hjer á landi er svo hreint og gott sem það getur bezt verið. Vatnsins neytum vjer í einhverri mynd í hverri einustu máltíð og enn oftar, enda er vatnið í líkama vorum meira en $^2/_3$ hlutar af þyngd hans. Vatnið höfum vjer mjög víða í bezta lagi, þótt það á stöku stað kosti mikla fyrirhöfn að grafa til þess. Þessa miklu kosti metum vjer sjaldan að nokkru, er vjer tölum um ókosti Íslands; það fer um þá kosti eins og svo margt annað, að „enginn veit hvað átt hefir fyrr en misst hefir“; vjer finnum bezt hvers virði þeir eru, þegar vjer getum ekki notið þeirra. — Eitt sinn kom jeg með enskum lækni að íslenzkum sveitabæ. Meðan við töfðum þar, komum við einu sinni að bæjarlæknum og fengum okkur að drekka. „En hvað vatnið hjerna er ágætt“, sagði læknirinn, „enda sjer það á; allt fólkið á bænum er svo hraustlegt og blómlegt í útliti“.

Þá skal jeg snúa mjer aftur að efninu. Jeg sagði áðan, að ef fara þyrfti í kaupstaðinn, þá væri sín sölubúð á hvora hönd í stofunni. Reyndar geta samt ekki einar tvær sölubúðir fullnægt öllum þörfum, því að í stórum borgum eru allir verzlarar tegundasalar, það er að skilja, hver þeirra selur að eins eina tegund varn-

ings; einn selur t. d, kaffi, sykur, te o. fl. því líkt; hann er nefndur sætindasali (á dönsku *Urtekræmmer)*; annar selur smjör, flesk, ost, egg o. fl., og er nefndur matmangari (á dönsku *Spekhöker);* þriðji selur alls konar tóbak og vindla; fjórði bækur og pappír; fimmti alls konar áhöld úr járni (Isenkram); bakarinn selur brauð, slátrarinn kjöt og svo koll af kolli, fjölda margar tegundir. Þá eru og ávextir, kjöt, fiskur og margt annað selt á sölutorgunum; þau eru stór steinlögð svæði með ýmsri lögun, oft aflangir eða skakkir ferhyrningar. Sum slík torg eru svo stór, að nokkrum dagsláttum nemur. Fyrir utan alla þessa verzlara ganga karlar og kerlingar æpandi um göturnar með fisk, ávexti, dagblöð og allt mögulegt. Lýður þessi syngur framboð sín með sömu nótum dag eftir dag, gengur fyrir hvers manns dyr, og býður þannig varning sinn.

Hjá þessum verzlarasæg eru keyptar allar daglegar nauðsynjar, og oftast keypt að eins til þess og þess dagsins, einkum kjöt, fiskur og hvað annað, sem fljótt skemmist við geymsluna. Ráðskonan í borginni þarf því að ganga á sölutorg eða í smásalabúð nærri því eins oft og ráðskonan hjer á landi þarf að ganga í geymsluhúsið. Að því er snertir daglaunamenn, handiðnamenn o. fl., hafa þeir ekki aðrar tekjur en laun sín; þau eru fremur lítil, þegar miðað er við þarfirnar, en þeir fá þau oftast borguð á hverri viku; það eru því aldrei miklir peningar til í einu, og ekki hægt að kaupa mikið í senn. Leigan eftir hverja íbúð er allmikil; leigjandinn hefir því sem allra minnst húsakynni að hann getur, til þess að leigan verði sem minnst, en þá er ekki hægt að geyma miklar birgðir. Þessi búskaparmáti verður því að flestu leyti hagfeldastur *þar*, þótt hann mundi ekki þykja það *hjer*.

Við erum nú búnir að tefja í þessu húsi eftir vild, og göngum þaðan eftir götunni. Þá sjáum við á einum stað, hvar menn eru að verki; þeir hafa grafið gryfju ofan í götuna, 3—4 álnir á dýpt; þeir eru eitthvað að lagfæra þar niðri. Á botni gryfjunnar er leirpípa, svo sem 8—12 þuml. að þvermáli. Eftir henni rennur allt skólp frá húsunum og regnvatn af húsaþökum og götum á burt úr bænum og út í sjó. Allt að alin ofar liggur járnpípan fyrir hreina vatnið, sem fyrr er getið; hún er um 2—4 þuml. að þvermáli. Út úr þeim pípum liggja kvíslar hingað og þangað upp á móts við steinlagning götunnar. Þegar eldsvoða ber að höndum, þá eru vatnsbyssunar skrúfaðar á þessar pípukvíslar, og vatninu stýrt á eldinn. Á húshornum má oft sjá tölur, sem segja til, hve langt er að næstu vatnsuppsprettu. Það sem jeg nefni hjer vatnsbyssur, eru langar, beygjanlegar pípur af leðri eða segli og vatnsheldar. Á dönsku heitir þetta *Brandslange.* Á öllum pípuendunum eru málmhólkar með skrúfum. Það eru skrúfaðar saman svo margar pípur, að þær nái frá uppsprettunni þangað sem eldurinn er.

Það er merkilegt, hve mikil líking er á milli þessa vatnspípnakerfis í borgunum og blóðrásarinnar um líkamann. Uppsprettan, eða aðalbirgðirnar af hreinu vatni, samsvarar vinstra hjartahólfinu; vatnspípurnar, sem kvíslast frá uppsprettunni í hvert einasta hús, samsvara slagæðunum; afnot vatnsins í húsunum samsvara háræðunum, þar sem blóðið gefur frá sjer næringuna, er það færir líkamanum, en tekur aftur við óhreinum efnum úr líkamanum til að bera þau burtu; pípurnar fyrir óhreina vatnið, sem koma frá hverju húsi og sameinast í stórum rennum, er flytja burtu öll óhreinindi, samsvara blóðæðunum, sem flytja óhreina blóðið frá lim-

um líkamans; sjórinn, sem tekur við óhreina vatninu, samsvarar hægra hjartahólfinu, sem tekur á móti blóðæðablóðinu. Síðan tekur náttúran sjálf við vatninu, það gufar upp í loftið úr sjónum, verður að skýjum, fellur aftur sem regn og birgir uppsprettuna með hreint vatn, eins og blóðið rennur gegn um lungun, hreinsast þar fyrir áhrif loftsins, rennur þaðan til vinstra hjartahólfsins og byrjar næstu hringferð sem hreint og fagurrautt slagæðablóð.

Við áttum enn eftir að gæta að einu í gryfjunni. Nokkru fyrir ofan vatnspípurnar, eða svo sem feti fyrir neðan steinlagninguna, liggur þriðja pípan; hún er ekki nema svo sem einn eða 2 þuml. að þvermáli; eftir henni rennur gasið, sem þú hefir oft heyrt nefnt, þótt það sjáist aldrei á Íslandi í þeirri mynd, sem það er notað hjer. Gas er eins konar eldfim lofttegund, sem unnin er úr steinkolum. Gasgerðin fer fram utan borgarinnar og eyðist til hennar fjarskinn allur af kolum. Frá gasgerðinni streymir gasið eftir fyrr nefndum pípum um alla borgina. Þegar fer að dimma á kveldin, er kveykt á því á götunum og í uppgöngunni í öllum nýrri og vandaðri húsum. Á götunum eru járnsúlur (Lygtepæle) holar innan, um 5 álnir á hæð. Úr aðalpípunni, sem fyrr er nefnd, liggur mjórri pípa upp eftir allri súlunni og efst á þeirri pípu logar á gasinu. Utan um gaslogann er ljóskerið, til þess að ljósið ekki slokkni þegar hvasst er. Stundum er götuljósum þessum komið fyrir á húsahornum, eða á einhvern annan hátt. Auk þessa er gasið haft í öllum stórbyggingum, svo sem gestahúsum (*Hotel* = gestahús), leikhúsum, kirkjum o. s. frv. Svo er það og haft í flestum sölubúðum og nokkrum íbúðarhúsum. Gasið er látið streyma út um svo örmjóan pípuenda, að gild saumnál gæti

verið tappi í hann; þar er kveykt á því, rjett eins og á lampa eða kerti, og þarf engan kveyk eða rak. Þegar slökkva þarf, þá er lykli snúið í pípunni, gasstraumurinn stíflast og ljósið deyr þegar. Svo er haglega búið um, að hægt er að vita, hve miklu hver einstakur húseigandi eyðir af gasinu; til þess er haft áhald, sem nefnt er gasmælir. Gasgjaldið fer eftir því, sem hver hefir eytt. Á sumum stöðum eru samt rafmagnsljósin farin að útrýma gasljósunum, einkum þar sem hætt er við að gasljósin gætu of mjög aukið hita og skemmt loftið, t. d. á leikhúsum, þar sem nokkur þúsund manna eru stundum komin saman í einu húsi, og víðar þar sem líkt stendur á. Í haust sá jeg að farið var að nota rafmagnsljós á sumum götunum í London, en samt vóru gömlu gasljóskerin látin standa óhreyfð til vara. Í Manchester vóru rafmagnsljós höfð í einstöku sölubúðum og á þeirri einu ritstofu, sem jeg kom þar inn í að kveldlagi. Rafmagnslampinn er hol, loftþjett glerkúla; rafmagnið streymir inn í hana eftir vír. Ljós þetta getur því komið að sömu notum þar sem loftlaust er, og það eyðir ekki loftinu eða skemmir það. Um rafmagnsljós má lesa í „Iðunni“ II. B. bls. 299—301. og lítið eitt í almanaki Þjóðvinafjelagsins 1886, bls. 40, og enn víðar.

Við höldum svo áfram, en hver mætir okkur þarna? Það er maður með hest og vagn. Hann ólmast með hrossabrest fyrir framan hverjar húsdyr. Þetta er sorpökuþór; Danir nefna hann *Skraldemand* af hrossabrestinum (Skralde), og stundum *Skarnager*. Þegar eldabuskurnar heyra til hrossabrestsins, þyrpast þær ofan með hylki full af ösku og alls konar sorpi, og tæma þau í vagninn. Þegar ökuþórinn er búinn að fá vagnhlass, flytur hann það eitthvað á burtu úr borginni.

Ef við ætlum langt, þá er ljettara að fara með sporvagni; þeir ganga víða um borgirnar. Í Kaupmannahöfn kostar aksturinn 10—20 aura fyrir manninn eins langan veg og við getum gengið á hálfum klukkutíma. Í Englandi virtist mjer fremur dýrara að fara með sporvögnum. Sporvagninn er í rauninni ofur lítið hús eða herbergi, með hurðum, gluggum, þaki, tveim bekkjum eftir endilöngu, sínum við hvora hlið, og gangvegi á milli. Á bekkjunum geta setið 16—20 menn og jafnmargir uppi á þakinu, því að þar eru líka bekkir. Auk þessa situr vagnstjóri (ɔ: sá sem stýrir hestunum) í sæti sínu framan á vagninum, en fjehirðir gengur milli farþega, heimtir gjaldið, og gefur á móti smáseðla, sem prentuð er á auratalan eða *pensa*-talan, er goldin var. Eftir veginum, sem sporvagninn gengur á (sporveginum), liggja tvær gildar járnstengur, sem nefna mætti á íslenzku vegteina. Sinn teinn er fyrir hjólin á hvorri hlið á vagninum, og er þannig jafnlangt á milli teinanna og hjólanna; báða teinana mætti nefna einu nafni vagnfar. Teinarnir eru skorðaðir í steinlagningunni á götunni. Önnur röðin á hverju vagnhjóli er nokkru hærri en hin, og gengur niður með vegteininum til þess að vagninn geti ekki runnið út af vagnfarinu. Vagninn gengur á ákveðnum tíma frá hverjum endastöðvum, stundum á hverjum 5 eða 10 mínútum, en stundum líður lengra á milli, allt eftir því hve vegurinn er fjölfarinn. Það segir sig sjálft, að ef vegurinn er langur, hálf til heil míla, og vagn leggur af stað 10. hverja mínútu, þá eru margir vagnar á gangi í senn. Ef sporvegurinn er ekki alstaðar tvöfaldur, svo að vagnarnir geti mætzt, hvar sem vera skal, þá er hann samt tvöfaldur með pörtum, til þess að vagnarnir þurfi aldrei út af vagnfarinu þegar þeir mætast. Venjulegast er það, að tveir stórir og

sterkir hestar draga sporvagninn. Nú á seinustu árum er einnig farið að nota gufuaflið til þess. Jeg hefi heyrt getið um, að það væri byrjað í Kaupmannahöfn, síðan jeg fór þaðan vorið 1883, og í haust sá jeg gufusporvagn í Bradford. Í Liverpool sá jeg sporvagn, sem hreyfður var með þjettilofti. Í einum bæ á Englandi er rafmagn notað til þess að hreyfa sporvagn. Sumir ætla að það verði bráðum ódýrasta aflið til þess. Hvaða afl sem notað er til hreyfingarinnar, getur vagnstjórinn ávallt stöðvað vagninn og sett hann af stað eftir vild sinni.

Sporvagnar eru mjög að aukast á þessum tímum. Fyrir tíu árum vóru sporvegirnir á Englandi 94 enskar mílur, en 1885 eru þeir 656 mílur. Árið 1876 ferðuðust á sporvegunum 89 miljónir farþega en árið 1885 um 283 miljónir. Allar tekjur vóru 1876 14 milj. kr., en nú rúml. $37^1/_2$ miljón, og kostnaðurinn er nú tæpar 29 milj., svo að hagnaðurinn er ekki minni en tæpar 9 milj. og eru það laglegir vextir. Auk þessara sporvega eru á Írlandi 85 enskar mílur og á Skotlandi 70. Fjelög einstakra manna eiga flesta þessa sporvegi; að eins $^1/_5$ hluti þeirra er í höndum yfirvalda og bæjarstjórna.

Allravagn (Omnibus) er líkur sporvagni að lögun, en venjulega heldur minni; hann vinnur sama gagn og sporvagninn, en lakara er að sitja í honum, því að hann gengur ekki á neinum járnvegi, heldur á götugrjótinu. Allravagnar ganga frá endastöðvunum ákveðna leið á ákveðnum tímum, á líkan hátt og sporvagnar.

Þá er þægilegt að grípa til leiguvagnanna. Svo nefni jeg vagn þann, sem á dönsku er nefndur *Droske*, á ensku *cab*. Vagnar þessir rúma oftast 4 menn, stundum að eins tvo, auk vagnstjóra; venjulegast geng-

ur fyrir þeim einn hestur, sjaldan tveir. Leiguvagnarnir eru venjulega skrautlegir, með þaki yfir, sínar dyr á hvorri hlið og stórir glergluggar á hurðunum. Vagnstjórarnir hýma með hest og vagn hjá sjer, á ákveðnum stöðum, helzt nærri járnbrautarstöðvum og á fjölförnum stöðum í borginni, þangað til einhver biður þá að aka sjer. Það er gott að geta varpað allri sinni áhyggju upp á vagnstjórann, því að hann kann leið um alla borgina, og svo flytur hann farangurinn með. Það er líka nokkurn veginn viss venja ferðamanna, að leigja sjer vagn milli gestahúss og járnbrautarstöðva eða gufuskips, ef þeir hafa nokkuð meðferðis, og ef það er töluverður spölur. Járnbrautarþjónarnir flytja farangurinn, ef stutt er að fara. Oftast er borgunin fyrir leiguvagninn goldin eftir vegalengd, en það má líka borga eftir tímalengd, ef svo er samið um í fyrstu. Vagnstjórarnir hafa verðlagsskrá til að fara eftir, og skal jeg setja hjer sýnishorn af einni þeirra.

Einn eða tveir farþegar borgi 3,15 kr. fyrir míluna, (minnst 68 aura fyrir $^3/_{14}$ úr mílu). Eða ef talið er eftir tíma, þá 45 aura fyrir fjórðung stundar. Þrír eða fleiri farþegar 4,20 kr. fyrir míluna (90 a. fyrir $^3/_{14}$ úr mílu), eða 56 aura fyrir fjórðung stundar. Frá því kl. 12 um miðnætti og þangað til kl. 7 að morgni ber að borga tvöfalt gjald. Jeg tel víst að verðlagsskráin sje lík þessu annarsstaðar. Verði vagnstjóri uppvís að því, að hafa tekið hærra gjald en heimilt var, varðar það sektum. Tala stendur á hverjum vagni, og er fyrir það hægra að klaga vagnstjórana, ef þeir hafa gert rangt.

Talþræðir og ritþræðir liggja eins og net um alla borgina; þeir liggja á háum trjestólpum hingað og þangað með fram götunum; einkum er það samt í útjöðr-

um borganna og utan við þær, að þræðirnir liggja á stólpum. Efri endinn á hverjum stólpa er alsettur járngöddum, svo að hann lítur út eins og hrísla. Á hverjum gaddenda er einangrari (isolator); það er dálítill húnn eða hnúður, hvítur að lit, af postulíni eða gleri; ofan í hvern hún er skora, þar sem þræðinum er komið fyrir. Einangrarar gera það gagn, að rafmagnsstraumurinn heldur áfram eftir vírnum, en rennur ekki ofan í jörðina. Þar sem þjettari er byggðin, eins og er í miðjum borgunum, liggja þræðirnir venjulega yfir húsmænana. Því varð líka bónda nokkrum á Englandi, er hann kom til borgar einnar; hann glápti á þræðina og sagði: „Nei, bara lídd' á kvurninn ald er vidlaust og aungvu lígd í ðessumm stóru borgumm; sona þarv að binda samann húsinn so ðaug dedd' eggi". Þegar þræðirnir liggja yfir húsin þarf að hafa einangrarana svo hátt frá mæni, að þræðirnir snerti ekki húsaþökin. Þannig lágu einir 30—40 þræðir yfir mæninn á húsi því, sem jeg dvaldi í, þegar jeg var í Kaupmannahöfn, og sem áður er nefnt; mátti með góðri eftirtekt heyra ofur lítinn óm í næturkyrðinni, þegar vindurinn þaut í þráðunum.

Lögregluþjónar mæta okkur hingað og þangað á götunum; þeir eru í einkennisbúningi, dökkum frakka með gylltum hnöppum; þeir eru auðkenndir hver frá öðrum með tölustöfum, sem komið er fyrir á frakkakraganum framanverðum eða framan á höfuðfatinu. Dálítið er búningurinn öðruvísi á Englandi en í Kaupmannahöfn. Lögregluþjónar eru flestir stórir menn, þrekvaxnir, og líta út fyrir að vera á bezta aldri, enda væri ekki gott að hafa veikbyggða eða gamla menn til þessa starfa, því að oft reynir á karlmennsku þeirra, þar sem svo margir og misjafnir menn eru komnir sam-

an, eins og er í fjölmennum borgum. Lögregluþjónar eiga að sjá um reglu á götunum, og þar verða þeir að vera á flakki sinn ákveðna tíma, hvernig sem veður er, og mega ekki koma inn fyrir neinar húsdyr, fyrri en tíminn er á enda og annar tekur við. Þeir taka hvern þann mann með sjer á lögreglustöðina, sem gerir af sjer ófrið eða á einhvern hátt brýtur á móti góðri reglu. Það sem jeg kalla lögreglustöð (Politistation), er ritstofa lögreglustjórans; þar eru þeir yfirheyrðir, sem gert hafa einhvern þann óskunda, að lögregluþjónar hafi þurft að skerast í leikinn, og þar eru fangaklefar til að geyma þá í. Ef lögregluþjónar sjá, að haltur eða meiddur hestur er hafður fyrir vagni, þá sjá þeir um, að eigandi hans verði fyrir sektum. Það veitti ekki af, að jafnríkt væri gengið eftir þessu hjer á landi. Drukkna menn, sem eru mjög ólmir, eða ekki sjálfbjarga, hafa lögregluþjónarnir með sjer í fangaklefa á lögreglustöðinni; þar eru þeir látnir sofa úr sjer vímuna; en ef þeir eru þægir, þá fylgja lögregluþjónarnir þeim oft heim.

Ef eitthvað nýstárlegt eða mikilfenglegt er um að vera, t. d. eldsvoði, þá þyrpist saman sá ógurlegur mannfjöldi, að lítt verður við ráðið. Þá þurfa lögregluþjónarnir einkum að láta til sín taka; þeir þurfa að halda opnu sviði fyrir slökkviliðið, svo að það geti neytt sín. Meðan mannþyrpingin er ekki of stór, rekur lögregluliðið hana á undan sjer, eins og smali rekur sauðahjörð. Þá verða allir að hlýða lögreglunni, jafnt prúðbúnir spjátrungar sem kolsvartir sótarar. Hjer á landi þekkjast ekki slíkar aðfarir, enda mun oss Íslendingum margt betur gefið en hlýðni við lögreglu. Íslenzkir vesturfarar hafa líka stundum kvartað um það í brjefum sínum heim, að þeir hafi verið reknir eins og sauðir gegn

um borgirnar á Skotlandi. En það er víst ekki um skör fram, að vesturfara er gætt þannig; þeir skilja fæstir málið, og þekkja ekkert eða vita, hvert þeir eiga að snúa sjer, ef þeir verða viðskila við leiðsögumenn sína; þeir gætu þá hæglega lent í óskilum hálfan dag eða lengur, og enda misst af ákveðinni skipsferð og samferð vina sinna og ættingja vestur yfir hafið.

Ef þú fer einhverntíma utanlands og ert einn þíns liðs, þá vil jeg ráðleggja þjer, að spyrja lögregluþjónana til vegar, þegar þú getur því við komið, og ef þú þarft á leiðsögu að halda. Jeg geri ráð fyrir, að það sje einhver tiltekinn maður í borginni, sem þú þarft að finna, og að þú vitir glöggt nafn götunnar, tölu á húsi því sem hann býr í, og hvað annað, er einkennir bústað hans[1]. Ef þú ert ekki vel fær í framburði málsins, þá er vissast fyrir þig, að hafa heimilisfang hans ritað hjá þjer, til að sýna það þeim, er þú spyr til vegar. Ef það er lögregluþjónn, þá sýnir hann þjer og segir hvert þú átt að halda og gengur jafnvel með þjer áleiðis, en ekki má hann að nauðsynjalausu fara út yfir gæzlusvið sitt. Lögregluþjónar fá laun sín af almannafje borgarinnar, og taka enga borgun fyrir leiðbeiningar sínar. Sjáir þú ekki lögregluþjóna, þá er bezt að spyrja til vegar laglega búna, stillilega menn, sem út lítur fyrir, að ekki sjeu á mjög hraðri ferð um götuna.

Í Kaupmannahöfn eru svo nefnd *Bybud* eða bæjarboðar. Það eru vikapiltar, sem hýma við götuhorn eða

---

[1]) Þetta er nefnt á dönsku *Adresse*. Það orð þýðir upphaflega „ávarp“, en af því að þetta þarf jafnan að standa utan á sendibrjefum, þá hefir það verið nefnt á íslenzku „utanáskrift“. Reyndar sýnist eins mega nefna það heimilisfang, ekki sízt ef það er sagt munnlega.

reika um götuna allan daginn, til þess að vita, hvort enginn vill nota þá til einhvers. Þeir eru hvítklæddir, hafa látúnsspöng framan á húfunni uppi yfir skyggninu (derinu), og er á hana grafið nafnið Bybud. Auk þessa hafa þeir bókstafi og tölustafi á brjóstinu til einkennis. Þeir bera böggla og aka litlum farangri hvert er vill í bæinn. Svo munu þeir og leiðbeina ókunnugum mönnum, ef þess er beðizt, en hvert viðvik þeirra þarf að borga fullu gjaldi. Sams konar vikapiltar (porters) eru og í borgum á Englandi, en engan hafa þeir einkennisbúning, svo að jeg þekkti þá ekki frá öðrum götuslæpingum.

Ef þú tefur um tíma í borg, þar sem eitthvað er af herliði, muntu fá að sjá þegar liðsmenn eru æfðir. Þeir eru allir í einkennisbúningi, og hefir hver stjett í hernum sinn búning. Búningur foringjanna er skrautlegur, og er mælt, að hann gangi kvennþjóðinni mjög í augu. Hvert ríki hefir og sinn einkennisbúning handa liðsmönnum sínum. Nýlunda er það fyrir Íslendinga að horfa á heræfing. Þó að 20—30 menn, eða enn fleiri, sjeu í einum hóp, hlýða þeir allir skipun (Commando) eins manns þannig, að þeir gera hverja hreyfingu eins og hann skipar fyrir. Þeir byrja á því að læra að ganga, stíga allir niður sama fæti í senn, svo að vart heyrist annað en að einn maður sje á gangi, nema hvað meira glymur í götugrjótinu er þeir stíga niður.

Oft var jeg að hugsa um það, þegar jeg horfði á heræfingu, að vjer gætum haft gott af því, Íslendingar, að ganga í slíkan skóla eitt ár, þótt aldrei væri til annars en að læra að ganga eins og fallegast er og hollast fyrir heilsu mannsins, en þó einkum til þess, að læra að hlýða; skortur á þeirri kunnáttu er eitt af þeim mörgu og háskalegu þjóðmeinum vorum, því að af hon-

um leiðir aftur það, að svo fáir kunna að skipa fyrir svo að vel sje. Milli þessara tveggja menntunargreina er miklu nánara samband en flestir ætla, því að sá, sem ekki hefir lært að hlýða, mun ekki heldur kunna að skipa fyrir.

Það mætti rita fjöldamargt og mikið um allt það, sem getur að sjá og heyra í borgunum utanlands yfir höfuð, en hjer er ekki rúm til þess. Jeg sný mjer því að sjálfri ferðinni, og er bezt fyrir þig vinur, að bregða þjer þessa ferð með mjer — svona rjett í huganum — því að farseðillinn er svo ódýr fyrir þess konar ferðamenn.

---

Erindi mitt til Englands var það, að fá leiðbeiningar um, hvernig fara skal með íslenzka ull, til þess að meira verð fáist fyrir hana en fengizt hefir þessi síðustu ár. Nú er búið að prenta í Andvara XII. ári 1886 skýrslu mína um ferðina og fleira, er snertir meðferð á ull, svo að jeg hleyp yfir flest þau atriði, er þar að lúta.

Jeg fór með fjárflutningaskipi frá Akureyri um nónbil 1. okt. í haust er leið; þá var gott veður. 2. og 3. okt. var óskabyr; stinningskaldi á eftir. Jeg varð ekki var við óveður það, sem þá æddi um Ísland, og var þó skipið milli Íslands og Færeyja, en fór suður fyrir austan þær seinni daginn. Hinn 4. okt. var allhvasst, rjett á móti, svo að það tók af skipinu $^2/_3$ flýtis nokkurn hlut dagsins. Þá var farið fyrir austan Orkneyjar en vestan Hjaltland (Shetland islands). Daginn eftir var farið suður með Skotlandi austanverðu. Hvergi var staðið við á leiðinni, nema um $^1/_2$ tíma á Eyjafirði, við Hjalteyri, og svo sem annað eins 5. okt. framundan Peterhead á Skotlandi; þar var hraðfrjett send í land

til að boða komu skipsins. Morguninn eftir var komið að mynni fljótsins Tyne (frb. tæn) kl. 9. f. h. Þá var farið upp eftir fljótinu í klukkutíma, og skipið lagðist kl. 10 við Nýjakastala. Skorti þannig 2 eyktir á 5 sólarhringa, sem skipið var á leiðinni, því að tíminn á Englandi er rúmum klukkutíma á undan tímanum á Íslandi, og það urðum við að færa klukkuna á leiðinni. Farmurinn á skipinu var rúm 2000 sauðfjár. Fjórar kindur vóru dauðar þegar komið var til Nýjakastala. Fjeð var rekið á land þegar hægt var, og var það geymt í sóttvarnarhaldi fyrsta dægrið (12 kl. tíma).

Við vórum 6 farþegar með skipinu á 1. lyftingu, enda veit jeg ekki hvort 2. lyfting hefði verið fáanleg. Fæði kostaði 4,50 kr. á dag eða alls í ferðinni 22,50 kr.; það varð þannig ódýrara en tveggja króna fæðið hefði orðið á 2. lyfting með Thyra frá Akureyri til Leith, því að sú ferð stóð yfir 12 daga eða lengur.

Fyrst við erum nú vel og farsællega komnir á land, skal jeg minnast lítið eitt á Nýjakastala sjerstaklega. Borgin er á austurströnd Englands að norðanverðu við ána Tyne, hjer um bil mílu frá sjó, ef beint er farið, en dálítið lengra ef fylgt er bugunum á ánni.

Borg þessi er mjög gömul; þegar Rómverjar rjeðu fyrir Bretlandi, hjet hún *Pons Ælii* (Brú Ælíans), af því að Hadrían keisari, sem var af Ælíansætt, er köll- uð var, ljet leggja þar brú yfir ána og hafði þar setu- lið. Saxar nefndu bæinn *Monkchester* (Munkahæli), af því að menn af ýmsum trúarflokkum höfðu þar griða- stað og hæli á tímum ófriðar og hættu. Norðmenn byggðu þar kastala, og borgin, sem reis upp á rústum saxneska vígisins, var nefnd *Newcastle-on-Tyne* (Nýikast- ali við Tyne).

Helzti atvinnuvegur þar er kolanám og kolasala. Það

er málsháttur á Englandi, þegar talað er um eitthvert verk, er óþarft þykir, að það sje „að flytja kol til Nýjakastala“. Það svarar til íslenzka orðtækisins, „að bera í bakkafullan læk“. Í Nýjakastala er og töluverð verzlun með lifandi pening. Íbúatala borgarinnar hefir meira en fimmfaldast síðan um næst liðin aldamót; þá vóru þar rúm 28 þúsund manna, en 1881 vóru þar rúm 145 þúsund. *Gateshead* (frb. Geits‘-hedd) heitir bær með 60 þúsund íbúum, sunnan við ána, rjett á móti Nýjakastala. Svo eru enn nokkrir smábæir beggja megin árinnar fyrir neðan Nýjakastala. Borgin er sú þriðja í röðinni á Englandi hvað snertir verzlun og skipaferðir. Árið 1883 fóru meira en 16000 skipa um árósinn og báru þau 6 miljónir smálesta. Einungis London og Liverpool standa hærra í þessu tilliti. Reyndar kemur nokkuð af þessari verzlun á smábæina, sem standa beggja megin við ána fyrir ofan og neðan Nýjakastala, því að smáskip geta gengið á ánni, jafnvel upp fyrir borgina. Landið, sem borgin stendur á og umhverfis hana, er nær því flatt, að eins með litlum öldum. Það er óvíða halli á götunum, nema þar sem hallar að ánni.

Þrjár brýr eru á ánni milli Gateshead og Nýjakastala. Jeg skoðaði að eins tvær þær neðri. Það er stutt bil á milli þeirra. Sú sem ofar er á ánni heitir *High level bridge* (frb. hæ levv‘-il bridsj, ɔ: hábrú), stórkostlegt mannvirki, rúmir 216 faðmar á lengd. Járnbraut liggur yfir ána á brúnni. Hæðin frá járnteinum brautarinnar niður að vatnsfleti árinnar, þegar hann er hæstur, er 18 faðmar. Sex járnbogar halda brúnni uppi. Bogarnir standa á stöplum í ánni og beggja megin við hana. Brú þessi var byggð 1846—50 og kostaði nær því 9 miljónir króna. Eftir miðri brúnni er akvegur fyrir hestavagna, en til beggja hliða eru vegir fyrir

gangandi menn. Uppi yfir þessum vegum er þak mikið og sterkt; á því er járnbrautin, svo að vagnalestirnar þjóta yfir höfðum þeirra, sem aka eða ganga eftir brúnni. Öll er brúin mjög mikilfengleg, og mælt er, að nú sje byggingarfræðinni svo mjög farið fram, að smíða mætti jafnsterka brú og þessi er, en þó með minna en hálfum þunga hennar. Tollur er tekinn af hverjum gangandi manni, sem um brúna fer, tæpir 4 aurar; og fjelagið, sem á járnbrautina, hefir lagaleyfi til að reikna fargjald fyrir brúna eins og þrjár enskar mílur.

Litlu neðar er svo kölluð *Swing bridge* (ɔ: sveiflubrú). Hún er miklu styttri og lægra frá vatnsfleti en hin brúin. Í miðri ánni er stöpull aflangur; annar endi hans veit mót straumi en hinn undan. Miðhluti brúarinnar leikur eins og á þolinmóði á stöplinum, og má hreyfa þennan part til hliðar, svo að hann viti upp og ofan eins og stöpulinn. Við það opnast hlið beggja megin við stöpulinn; eru það gangvegir skipa, sem upp eftir fljótinu fara, en þeir sem yfir ætla á brúnni, verða að bíða meðan skipið fer gegn um hliðið. Enginn tollur er borgaður af þessari brú.

Á seinni árum er farið að byggja brýr þær, er hefja þarf af gangvegi skipa, á annan hagfelldari hátt en þennan. Miðpartur brúarinnar er í tveim hlutum. Hvor hlutinn fyrir sig leikur eða vegur salt á sterkum völtum; má með litlu handtaki koma þeim úr jafnvæginu. Sá endinn af brúarhlutnum er lengri, sem veit að miðju brúarinnar og hefst hann upp; þeir hefjast hvor frá öðrum, svo að nægilegt bil verður fyrir skipið milli þeirra; síðan má með jafnlitlu handtaki láta þá síga í samt lag. Þá koma brúarhlutarnir aftur í svo fastar stellingar, að brúin er sem heil væri. Vatnsafl er not-

98



ss að hefja brúna. Jeg sá þrjár í Kaupmanna-nig gerðar.

na fyrir neðan Nýjakastala eru margar stór-starfstöðvar, þar sem skip eru byggð; mátti ðan hamrahögg og hávaða mikinn, þegar skip-p ána.

virðist benda til þess, að gott væri fyrir Ís-hafa meiri verzlun við Nýjakastala en verið hefir. Þar er góður markaður fyrir fjenað, en hann mun þó verða það fjemætasta, sem sveitabóndinn hefir til að gefa fyrir aðfluttar vörur. Kol fást þar góð og ó-dýr, en kolaeyðsla mun óðum aukast hjer á landi, eftir því sem fleiri nota ofna og eldunarvjelar, en mótak er eyðilagt. Vörur þær flestar, er vjer þörfnumst, má fá þar eins ódýrar og annarsstaðar, og enn mætti nefna fleira.

Eitt kveldið, sem jeg var í Nýjakastala, fór jeg í leik-hús með fáeinum mönnum, sem jeg þekkti. Helzta leik-húsið í hverri borg er oftast nefnt „konunglegt leikhús“, og svo er í Nýjakastala. Ekkert varð jeg hrifinn af að horfa á leikinn, og það var víst, að nýbrigðilegra þótti sumum áhorfendunum að sjá íslenzka stúlku, sem með okkur var, á íslenzkum peysufötum, en mjer að sjá leik þeirra. Ef þú vildir einhvern tíma fara til útlanda til að skemmta þjer við að ganga á leikhús, eða til að læra leikaraíþróttina og kynnast fyrirkomulagi öllu á leikhúsum, þá skal jeg ráða þjer til að fara eitthvert annað en til Englands. En viljir þú læra eitthvað annað, kynnast framförum heimsins í einhverju öðru, þá mun það í fáu, að England standi ekki jafnframarlega og önnur lönd, og í mörgu stendur það framar,

Í Nýjakastala eru markaðir á lifandi peningi haldnir á hverjum þriðjudegi, en ekki gat jeg komið á mark-

aðinn daginn sem jeg kom; það var orðið of seint. Lauritzen sá, er seldi fjeð fyrir Íslendinga, hafði þá um daginn selt nokkra sauði af öðrum farmi, sem kominn var fyrir nokkrum dögum. Um kveldið kom jeg með honum þangað, sem 50 af þeim hafði verið slátrað. Skrokkarnir með nýrum og nýrmör vógu 38—50 pund, eða að meðaltali 44 pund. Jeg vissi um vigt á öðrum hóp seinna, og varð meðaltalið nær hið sama. Ekki veit jeg hvað mikið þessir sauðir kunna að hafa vegið á fæti áður en þeir fóru frá Íslandi, en það er víst, að þeir hafa mikið ljetzt á leiðinni. Jeg var viku í Nýjakastala, bjó mig undir framhald ferðarinnar og beið eftir næsta markaði. Þessa viku var sumt af sauðunum selt utan markaðs. Eins og kunnugt er, seldist fje mjög illa á Englandi í haust, þó var pund af kjöti selt á tæpa 46 aura. Íslendingum þætti víst dýrt að kaupa kjöt þessu verði, þótt þeir væru sár-óánægðir með að fá ekki meira fyrir það. Þrem vikum áður var sagt, að kjötpundið hefði verið 17 aurum dýrara. Að því er jeg gat bezt sjeð, gerði Lauritzen allt sem hann gat, til að koma fjenu í sem hæst verð. Ein tilraun hans í þá átt var, að hann fór með sauðahóp til London, og fór Popp kaupmaður með honum. Popp kom með sama skipi og jeg frá Íslandi. En ekki varð sú „ferð til fjár“, því að sauðir þessir seldust sýnu miður en hinir. Um þetta leyti kom fjarskinn allur af nýju kjöti frá Ástralíu til London, og seldist eigi nema 17 aura pundið; var það litlu meira en fyrir flutningskostnaði; vógu þó skrokkarnir frá 63—72 pund. Eigi veit jeg hverju þetta sætti, því að kjötið var talið óskemmt, enda var það flutt alla leið frá Ástralíu gaddfrosið eins og nú er mjög farið að tíðkast.

Fje það er Slimon og fjelag hans keypti á Íslandi í

haust, seldist þó enn verr en sauðir Þingeyinga; er mælt hann hafi skaðazt á fjárkaupunum um 10 þúsund pund sterling; það eru 60 jarðarverð, ef hver jörð væri metin á 3000 kr. Slimon hefir þannig borið skaðann fyrir Íslendinga, er hann mun hafa borgað allt fjeð ýmist með peningum eða vörum, sem hann mun lítinn annan hagnað hafa haft á, en umboðslaun og flutningsgjald. Nokkuð öðru máli er að skifta með kaupmenn þá, sem hafa hjer fastar verzlanir; skaða þann, er þeir bíða á íslenzkum vörum útfluttum, vinna þeir upp á vörunum, sem þeir flytja inn frá útlöndum. Það eru þannig viðskiftmenn þeirra, bændur sjálfir, sem í raun og veru bera skaðann, enda er það mjög svo eðlilegt.

Þegar sagt er, að Þingeyingar og Eyfirðingar hafi skaðazt svo og svo mikið á sauðasölu sinni í haust, þá er það í raun og veru röng skoðun. Það er satt, Coghill gaf miklu meira fyrir það, sem hann keypti af fje, en skaðinn varð líka eins stórkostlegur og nú var sagt. En önnur eins verzlun getur ekki staðið til lengdar. Slimon stenzt það ekki að tapa árlega 60 jarðarverðum. Öll verzlun verður að vera svo, að báðir hafi hag, kaupandi og seljandi. Það var því ófyrirsjáanlegt slys fyrir Slimon, hvernig fór með þessa verzlun, og ófyrirsjáanlegt happ eða hvalreki fyrir seljendurna, að þeir sluppu hjá skaðanum, en hvalrekar geta enginn mælikvarði verið. Þegar salan á fjelagsfjenu er borin saman við það, sem sauðfjeð gerði á blóðvelli í kaupstað, þá er það einnig of hátt verð, rangur mælikvarði, því að það er haft fyrir satt, að einn kaupmaður hafi skaðazt um 14 kr. á hverri tunnu kjöts, sem hann flutti út, og hafa þá hinir vart komizt skaðlaust af. Þennan skaða hljóta þeir að vinna upp á einhvern hátt, ef verzlun þeirra á að geta staðizt. Allt svikaverð hjer á landi

er því rangur mælikvarði. Rjettur mælikvarði til samanburðar er því einungis það verð, sem hægt var að fá í peningum eða vörum með innkaupsverði fyrir sauðfjeð eða afurðir þess á útlendum markaði, eða hjer á landi með nokkrum hag, eða að minnsta kosti skaðlaust. Að því, sem mjer er kunnugt, hafa sauðir pöntunarfjelags Þingeyinga og Eyfirðinga selzt betur en nokkurt annað fje frá Íslandi seldist á Englandi í haust. Er því engin ástæða til að kvarta um skaða á verzluninni yfir höfuð.

Markaðurinn var haldinn eins og til stóð, þriðjudaginn 13. okt. Sauðfjármarkaðurinn í einu lagi og í öðru lagi nautgripamarkaður. Fjárrjettin er eins stór og stór fjárrjett á Íslandi, öll af járngrindum og steinlögð. Henni er skift í smákvíar eða dilka, þannig, að mjóir gangvegir liggja yfir hana þvera, og eru kvíarnar til beggja hliða við gangvegina. Það kostar 1 penny fyrir hverja sauðkind, að fá að sýna hana á þessum markaði eða 75 krónur fyrir 1000 fjár, hvort sem það selzt á markaðinum eða ekki. Víða mátti sjá 2 menn á tali hingað og þangað um rjettina. Oft var annar þeirra grannvaxinn, þreytulegur og ósællegur í andliti, og mun það hafa verið bóndinn, sem vildi selja. Hinn maðurinn var allfeitur og sællegur; það var slátrarinn, sem vildi kaupa, en slátrarar eru venjulega í góðum holdum.

Nautgriparjettin er skammt frá og engu minni en sauðfjárrjettin. Öll er hún steinlögð, en skilrúmsgrindurnar eru flestar af trje og vel sterkar. Nautgripirnir vóru víða bundnir í kvíunum, og líktust þær þá básum. Sum nautin vóru svo stór og feit, að vart er hægt að gera sjer hugmynd um það fyrir þann, sem ekki hefir sjeð aðra nautgripi en íslenzka. Eftir því að

dæma, sem jeg vissi um þyngd á öðrum nautum, sem jeg sá seinna, hafa mörg af þesssum nautum vegið á fæti frá 1—$1^1/_2$ ton, og er það sama og klyfjar á 10—15 hesta, rúm 200 pd. á hesti. Fáeinir íslenzkir nautgripir vóru þar einnig, og vóru þeir allrýrir í samanburði við hina; bezti gripurinn af þeim var þrjevetur uxi frá Mývatni, sem þótti dávænn heima, en hjer sýndist hann ekki nema eins og meðal vetrungur á móti innlendu gripunum. Flestir íslenzku nautgripirnir vóru rusl af vetrungum og tvævetrum kvígum úr Skagafirði. Jeg hefi heyrt sagt, að slíkur úrtíningur væri keyptur handa ljónum, tígrum og öðrum kjötetandi villidýrum, sem höfð eru í haldi í dýragörðunum. Söluverðið á Englandi gerði því alls ekki betur en að borga flutningskostnaðinn frá Íslandi og svo sölukostnaðinn. Mest af kostnaði þessum er greitt eftir höfðatölu, og verður hann þannig hjer um bil jafn, hvort sem gripurinn er vænn eða ljelegur.

Setjum dæmi: Tveir gripir skulu sendir hjeðan af landi. Annar þeirra selst á Englandi á 30 kr., en hinn á 135 kr. Flutningskostnaður og annar kostnaður, sem greiddur er eftir höfðatölu, er oft um 28 kr. fyrir hvern grip; sölulaun og annað hundraðsgjald 5°/₀. Kostnaðurinn við ljelegri gripinn verður þá samtals 29,50 kr., og eigandinn fær fyrir hann 50 aura afgangs kostnaði. Kostnaður við vænni gripinn verður 34,75 kr., eigandinn fær fyrir hann 100,25 kr. Með öðrum orðum: það þarf $200^1/_2$ grip eins og þann ljelegri móti einum þeim vænni, en hlutfallið milli notagildis þeirra, að dómi markaðarins, var þó eins og 1 á móti $4^1/_2$. Ef eigandi verra gripsins ekki skilur glöggt hvernig í þessu liggur, má búast við að hann segi við hinn: „Þetta hlýtur að vera eitthvað rangt, það sjer hver maður; ekki var svona mikill munur á nautunum; þú fær 100 kr., en jeg ekki nema 50 aura“. En þetta dæmi er nú samt rjett, og líkt þessu hefir átt sjer stað, þótt tölurnar hafi verið lítið eitt aðrar. Þetta dæmi sýnir bezt, hve mikil vanhyggja það er, að senda ljelegar skepnur á

útlendan markað, og er vonandi að þessi víti verði öðrum að varnaði.

Alls vóru á þessum markaði 8410 sauðkindur, 2104 nautgripir og 561 svín.

Hesta sá jeg ekki selda á þessum markaði, enda var ekki eftir af íslenzkum hestum nema vesalasti úrtíningur. Líkt er með þá og nautgripina, að það er ekki tilvinnandi, að senda til Englands úrtíning og gallagripi, því að verð þeirra þar gerir ekki betur en að borga kostnaðinn við flutning og sölu. Engu minni vaxtarmunur er á íslenzkum hestum og útlendum, en getið er um að framan um nautgripina. Margir hestar bæði í Danmörku og einkum á Englandi eru frá 60—68 þuml. á hæð, eða jafnvel meira; þeir eru þreknir að þessu skapi. Þessir hestar eru hafðir í mestu áreynsluna, svo sem til að draga þunga vagna. Aðrir minni og rennilegri hestar eru hafðir fyrir skrautvagna heldra fólks á skemmtiferðum þess. Aldrei hefi jeg sjeð klyfjar á hesti í útlöndum. Englendingur einn, sem allmikið hefir kynnzt íslenzkum vesturförum, sagði mjer einu sinni, að þeir hefðu vart á nokkru furðað sig eins mikið og því, hvað hestarnir á Englandi vóru stórir. Vesturfararnir höfðu þegar heima á Íslandi heyrt sagt frá gufuskipum, gufuvögnum, stórum húsum o. s. frv., svo að þetta kom þeim ekki mjög á óvart, en þeir höfðu aldrei heyrt sagt frá svona stórum hestum.

Daginn eftir markaðinn fór jeg frá Nýjakastala til Bradford, en þangað var ferðinni einkum heitið; því að sögn er þar unnið einna mest af íslenzku ullinni, og þótti því sennilegast að þeir, sem vinna úr ullinni, vissu bezt, hvernig á að undirbúa hana, svo að hún sje ekki skemmd í undirbúningnum. Að minnsta kosti ættu þeir að geta sagt, hvort þeir vilja fá hana þvegna eða óþvegna.

Áður en við byrjum ferðina, er vert að minnast lítið eitt á járnbrautarstöðvarnar, en þær eru oftast einhver stærsta byggingin í hverri borg, og svo er í Nýjakastala. Þegar fleiri fjelög en eitt eiga brautir, sem liggja inn í borgina, þá hefir oftast hvert fjelag sínar stöðvar.

Í stærstu borgunum eru líka margar stöðvar. Við tökum leiguvagn frá gestahúsinu á járnbrautarstöðvarnar. Þjónarnir taka þegar á móti farangrinum, en við förum inn í þessa stóru byggingu; þar eru seldir farseðlar um allt England, en þjónninn segir til, hvar seðill fáist keyptur til Bradford. Það er sín ritstofan fyrir hvern hlut landsins, og oftast eru farseðlar með vögnum 3. flokks seldir á einum stað, en 1. og 2. flokks á öðrum stað. Enginn kemur inn í sjálfa ritstofuna, heldur er talað við seljandann gegn um lítinn glugga eða hlera, sem hafður er opinn; þar afhendir hann farseðlana, en farþegar greiða borgunina. Gangvegur, mátulega breiður fyrir einn mann, liggur að glugga þessum, og annar gangvegur frá. Þegar margt manna er á ferð, gengur óslitin mannstraumurinn um gangvegina.

Í sömu byggingu eru og biðsalir fyrir 3. flokks farþega fyrir sig, og í öðru lagi fyrir farþega með 1. og 2. flokks vögnum. Á Englandi hefir karlfólk og kvennfólk hvort sína biðsali. Þá eru geymsluhús fyrir farangur farþega, ef þeir vilja láta geyma hann fyrir sig um tíma. Á Englandi kostaði geymslan 15 aura fyrir hvern sjerstakan hlut, og mátti hann þá geymast á stöðvunum í tvo sólarhringa. Járnbrautafjelögin hafa fjarskastór vörugeymsluhús, en þau eru ætíð höfð dálítið frá sjálfum stöðvunum, eða að minsta kosti ekki í sömu byggingu og salir þeir og ritstofur, sem þegar hafa verið nefndar. Víðast hagar svo til, að farþegi kaupir farseðilinn á leiðinni gegn um bygginguna. Á bak við sjálfa bygginguna, er breið stjett, rennisljett, úr steyptum steini, oftast með glerþaki. Hún er nefnd á ensku *Platform*. Að þessari stjett ganga gufuvagnarnir og má stíga af henni inn í þá. Þessar stjettir eru stundum margar við hverjar stöðvar, og eru þá aðskildar með girðingum. Hvert svæði hefir sinn tölulið. Við innganginn á hverja stjett er spjald, sem segir til hvert vagnarnir ganga frá henni. Við spjaldið er áföst skífa eins og á stundaklukku, og vísarnir benda á tímann, þegar næsta lest á að fara þaðan. Þá er stór stundaklukka einhversstaðar þar sem bezt er að sjá á hana,

og eftir henni fara lestirnar af stað. Þegar farþegi er búinn að kaupa farseðilinn, þá er límdur á farangur hans seðill með nafni bæjar þess, er hann ætlar til, og með fangamarki járnbrautarfjelags þess, sem flytur hann. Hver farþegi má hafa 100 pd. í fari sínu. Hvert járnbrautarfjelag hefir sitt fangamark. Það er Norð-austurjárnbraut, sem svo er nefnd, er liggur inn í Nýjakastala. Sú braut er nefnd á ensku *North Eastern Railway* (frb. Norþ ís'-törn reil'-wei), og fjelagið, sem á hana, hefir fangamarkið N. E. R. Þessir þrír stafir eru á hverjum hlut, sem fjelagið á; stafirnir eru ofnir í gluggatjöldin í vögnunum og í dúk þann, sem vagnsætin eru klædd með; þeir eru á hverjum bolla og teskeið í veitihúsi stöðvanna. Hver þjónn á stöðvunum hefir þá á húfunni sinni eða frakkakraganum, og er það mikið hagræði fyrir ferðamennina að geta fljótlega þekkt þjóna frá farþegum.

Með hverri farþegalest er sjerstakur vagn, sem farangur þeirra er hafður í, og fær hver farþegi hann á þeim stað, sem farangurinn er merktur til, en ekkert er á móti að líta eftir, að farangurinn sje látinn halda áfram, ef vagnaskipti eru höfð á leiðinni, eins og oft vill til. Annars er að minnsta kosti einn þjónn með hverri lest, til þess að sjá um að allt komi til skila. Í Englandi eru gufuvagnarnir eitthvað 7—8 álnir á lengd. Hverjum vagni er skift í þrjá hluta eða stofur, og eru dyr inn í hverja vagnstofu (Coupé) um báðar hliðar vagnsins. Efri hlutinn af hverri hurð er glergluggi, svo er og sinn gluggi hvorum megin við stofudyrnar á vagnhliðinni, svo að birtan er nægileg. Hurðin er látin aftur að utanverðu, en glugganum, sem er í efri hlut hennar, má hleypa niður, svo að þá geta farþegar sjálfir opnað. Utan á hurðunum má sjá af hverjum flokki stofan er, svo og hvort tóbaksreyking er leyfð. Sá, sem reykir í leyfisleysi, er sektaður; á Englandi er sektin 36 krónur. Ef enginn af þeim, sem eru í einni stofu hefir á móti því að reykt sje þar, þá er það vítalaust, enda þótt stofan sje ekki merkt sem reykingarstofa. Oft eru í sama vagni stofur af mis-

jöfnum flokkum. Hver vagn er merktur með tölu. og eiga sum járnbrautarfjelög vagna svo þúsundum skiftir. Við förum með 3. flokks vagni. Þegar við komum inn, er sinn bekkur hvorum megin í stofunni þvert yfir vagninn, og geta 5 eða 6 menn setið á hverjum bekk, eða 10—12 í stofunni. Bekkirnir eru stoppaðir og eins bekkjarbakið. Mestu yfirburðirnir, sem vagnar af 1. og 2. flokki hafa yfir vagna 3. flokks er það, að sætin eru af mörkuð, svo að þar getur aldrei orðið þrengra en svo, að einn maður sje í hverju sæti. Í vögnum þeim, á Englandi, sem mjög stutt eiga að fara, svo sem innan borgarinnar í London, milli Leith og Edinburgh og víðar, og eins á járnbrautum í Danmörku, eru berir trjebekkir í vögnum 3. flokks. Uppi yfir bekknum er hylla, sem farþegar geta látið upp á smáhluti, sem þeir hafa með sjer inn í vagninn.

Járnbrautin sjálf er að sumu leyti lík því, sem jeg hefi áður lýst sporvegunum, en þar sem að hún liggur yfir hæðótt land, þarf að hlaða undir hana í dældunum og grafa undan henni á hæðunum, því að á henni mega engar mishæðir vera, og ekki heldur krappir krókar til hliðar; ef hún liggur af lágu landi á hærra, þá er hún látin hækka jafnt og lítið. Víða eru grafin göng fyrir hana gegn um hæðirnar. Alstaðar er hún tvöföld, svo að lestirnar geta mætzt. Farþegalestirnar fara einkum á daginn; þær fara oft um 9 mílur (= 42 mílur enskar) á klukkustund, og ekki er leyft að fara harðara en enska mílu á mínútunni, eða tæpar 13 mílur danskar á klukkustund. Varningslestir fara nokkru hægra og eru oft látnar fara á nóttunni.

Líklegt þykir mjer að þú hafir gaman af fyrsta sprettinum, sem þú fer í gufuvagni. Hver snúningur hjólanna minnir þig á títt og lipurt fótatak á góðum, íslenzkum vekringi, og þú hossast ofur „hægt og vel“[1]. En ef þú ferðast með járnbraut dag eftir dag, þá fer þjer að

[1]) Sbr. vísuna: „Hossaði Laski hægt og vel | hrannar loga sólum, | eins og gæddur gufuvjel | gengi vagn á hjólum“. Kvæði eftir Jón Thoroddsen sýslumann. Kaupmannahöfn 1871, bls. 245.

þykja minna í það varið; það er tilbreytingalítið, og jeg er viss um að þú saknar folans þíns, ef það er nokkuð varið í hann sem reiðhest. Þegar lestin er á fullri ferð, er vart hugsandi til að skrifa í vögnunum, svo að læsilegt verði, en vel má lesa. Ef bjart er af degi, þá er jeg viss um að þú gefur þjer ekki tíma til að lesa, þú hefir meira gaman af að horfa út um gluggann. Margt ber fyrir augun. Hvert útsýni kemur snögglega í ljós og hverfur aftur eins snögglega. Þegar lestin er á fullri ferð, er ómögulegt að festa auga á því, sem næst er brautinni, en vel má virða fyrir sjer, um fáein augnablik, það sem er 10—20 faðma eða lengra frá henni; en það hverfur óðara hversu kær og fögur sjón sem það kann að vera. Þegar við förum að nálgast stöðvar, fer vagnalestin að hægja á sjer, unz hún staðnæmist við stjettina. Þjónar ganga fram með lestinni og æpa til farþega nafn stöðvanna; auk þess er nafnið með stóru letri á nafnspjöldum, ljóskerum og setubekkjabökum, hingað og þangað á stjettinni. En það er vart hægt að þekkja það frá auglýsingunum; af þeim er sá grúi á hverjum stöðvum, að allt er þakið; og þar sem byggingarnar þrjóta, en múrveggir og girðingar taka við, þar eru enn auglýsingar um *Stephen's Ink*, *Colman's Mustard*, *Keen's Mustard*, og allt sem nöfnum tjáir að nefna. Á einum stað leit út fyrir, að Colman og Keen hefðu verið að reyna með sjer, hvor þeirra kæmist lengra frá stöðvunum út á klettana, sem tóku við af þeim með fram brautinni; það var sín auglýsing frá hvorum til skiftis.

Óðara en lestin er setzt að, fyllist stjettin af fólki, bæði því, sem kemur út úr vögnunum og því, sem kemur út úr biðsölunum. Sje það snemma dags, mun hópurinn, sem fyrir er, fullt svo stór, en á kveldin koma fleiri úr vögnunum. Farangursvagninn er tæmdur og hlaðinn aftur í skyndi, að því leyti, sem þess er þörf, öllum vagnhurðum er lokað, það er blásið til brottferðar og lestin fer af stað eftir eina mínútu, stundum minni töf, stundum nokkru lengri, allt eftir áætlaninni, ef atvik ekki hamla.

Þannig höldum við áfram ferðinni frá Nýjakastala til Bradford. Sú leið er talin 112 enskar mílur. Ferðin stendur yfir $4^1/_2$ tíma; tafir á 9 eða 10 stöðvum samtals 1 tími 40 mín., svo að til sjálfrar hreyfingarinnar ganga 2 t. 50 m. Fargjald er 7,95 kr. með 3. flokks vagni, eða tæplega einn penny fyrir hverja enska mílu, og er fargjaldið með járnbrautum á Englandi oft mjög nærri þessu. Fargjald með vagni af 2. flokki er nokkru meira, stundum frá 30—40$^0/_0$, en jeg veit eigi um reglu fyrir því. Álíka er munurinn á fargjaldi með vögnum 1. og 2. flokks. Um flutningskaup á varningi skal jeg geta þess, að það er 31,50 kr. fyrir smálestina milli Leith og Bradford, en 13,50 kr. milli Nýjakastala og Bradford, og eins milli Hull og Bradford, þótt sú leið sje miklu styttri; það gerir samkeppni milli brautarfjelaganna. Sama er gjaldið fyrir þungan varning sem ljettan. Skipaskurður liggur frá Hull til Bradford; flutningskaup fyrir smálest af ull er þar að eins fáeinum aurum lægra en með járnbraut, en á þungri vöru munar það tæpum 2 kr. Ef Íslendingar vildu senda ull til Bradford, þá væri mun kostnaðarminna að senda hana gegn um Nýjakastala en Leith, eða hjer um bil jafnt gegn um Nýjakastala og Hull.

Í Bradford eru um 200 þúsundir íbúa. Helzti atvinnuvegur þar er vinna í ullarverksmiðjum og verzlun með alls konar ull. Sumstaðar mátti ganga svo eftir löngum götum, að vart sást annað á nafnspjöldunum, en ullarkaupmaður, ullarmiðlari, eða eitthvað því líkt, ýmist í eintölu eða fleirtölu. Flestar stórar verksmiðjur eru samt utan bæjar eða í útjöðrum borgarinnar, eins og venjulegast er í borgum, því að það þykir að mörgu leyti hagfelldara. Myndast þar þá gjarnan smábæir, því að oft eru þeir, sem atvinnu hafa við eina verksmiðju, svo nokkrum þúsundum skiftir. Verzlarar og iðnamenn koma svo á eftir, til að selja verkmönnunum það, sem þeir þurfa daglega. Ef verksmiðjuþorp þetta hefir verið mjög nærri borginni, þá vex hún með tímanum út yfir það.

Í sumar sem leið (1885) kom maður frá Bradford til

Akureyrar, George Charles Sim að nafni. Jeg hitti hann að máli og sagði honum frá ætlan minni þeirri, að ferðast til Bradford um haustið. Hann bauð mjer að finna sig, ef þetta næði fram að ganga. Daginn eftir að jeg kom til Bradford, fór jeg að hitta hann. Hann var glaðlegur og viðfelldinn í tali, gaf mjer eins góð og holl ráð eins og hann hefði verið bróðir minn. Þessi gestrisni hans var mjer, útlendingnum, ómetanlega miklu meira verð, heldur en þótt hann hefði tafið fyrir mjer eina tvo klukkutíma til að láta mig bíða eftir kaffi, en látið mig fara að öðru leyti jafnófróðan og jeg kom. — Það er afvegur, sem vorri góðu og göfugu, íslenzku gestrisni hættir of mjög til að villast á. — Nei, Sim gekk með mjer víða um bæinn; var hann þó hálfhaltur af gigt, en við þurftum að ganga æði spöl; hann ljet það ekki á sjer festa, sagði að sjer væri hreyfingin til heilsubótar.

Þegar Sim var búinn að koma mjer í kynni við þá menn, er hann áleit mjer gætu orðið að liði, sýndi hann mjer iðnaðarskóla (Technical College), sem nýlega er búið að koma upp í Bradford; það kostaði um 630 þúsund krónur að koma honum upp. Sim hafði verið helzti hvatamaður þess fyrirtækis. Á skóla þessum eru verklega kenndar margar handiðnir, svo sem alls konar tóvjelavinna, vefnaður, rennismíði, fínt trjesmíði, en þó að eins á svo háu stigi, að nokkur íþrótt sje í; einfaldasta undirstaðan er ekki kennd þar. Jafnframt verklegri æfingu hlýða nemendur á fyrirlestra, sem fræða þá um allt, sem lýtur að handiðn þeirra og fræðigreinum þeim, sem skylt eiga við hana, svo sem efnafræði, vjelfræði o. s. frv. Einn sá maður, sem Sim vildi koma mjer í kynni við á skólanum, var T. R. Ashenhurst, prófessor í vefnaði, en hann var ekki heima. Jeg kom því í skólann seinna um kveldið til að hitta hann. Hann var hinn alúðlegasti, og sýndi mjer allar starfstofur skólans, fyrirlestrasali og gripasafn. Á einni starfstofunni vóru vjelar, sem kembdu, spunnu og ófu, knúðar af gufuafli, en ekki var nema ein vjel af hverri gerð, því að stofa þessi var eingöngu ætluð til þess að læra

þar vörk. Í annari stofu vóru margir litlir vefstólar, sem nefndir eru sýnishornavefstólar *(pattern looms*, frb. patt'-örn lúms). Þar læra nemendur að vefa allskonar vígindi, vefa í dúkana rósir, blóm, fangamörk af ýmsri gerð og fleiri myndir. Þessir litlu vefstólar eru ekki nema um 3 kvartil á breidd, og hreyfðust eingöngu af handafli. Stóra vefstóla með sömu gerð má hreyfa með gufuvjel.

Prófessor Ashenhurst skoðaði fötin, sem jeg var í; þau vóru úr íslenzku vaðmáli og búin til á Íslandi; að eins var litunum í því hagað eins og í útlendum dúk. Hann hældi mjög vaðmálinu í þeim, og vildi ekki setja út á það fyrir lóna, sem jeg sagði að sumir teldu galla á því. Hann kvað það mundi að engu leyti hafa verið betra, þótt hún hefði verið skorin af. Jeg sagði það óprýða fötin er hún slitnaði misjafnt af; það sæi fyrri á þeim en fötum úr lóskornum dúk. Vitanlega væri ætlunarverk fatnaðar upphaflega það eitt, að skýla líkamanum gegn kulda, en nú mundi líklega allt að helmingi þess kostnaðar, er í fatnað gengur, varið til þess, að fullnægja fegurðartilfinningunni. Þótt nú vaðmálið lakaðist fremur en batnaði við lóskurðinn, þá væri það eigi nema ein grein af kostnaði þeim, sem varið væri til að prýða klæðnaðinn. Prófessorinn bar ekki á móti þessu, og kvað það frá því sjónarmiði rjett skoðað að betra væri að lóskera dúkana, enda er það í verksmiðjunum gert um flesta dúka, sem ekki eru ofnir lóarlausir.

Í Kaupmannahöfn er iðnaðarskóli, sem nefndur er: *Det tekniske Selskabs Skole.* Starfsvið hans er það sama og iðnaðarskólans í Bradford; þar er kennt allt það vandasamasta við handverkin, og allt bóklegt nám sem þeim er til stuðnings. svo sem dráttlist, reikningsfærsla og margt fleira. Skólar þessir eru alstaðar þar, sem nokkuð er hugsað um verklegar framfarir og iðnað.

Þegar talað er um menntunarástand Íslendinga, er það jafnast viðkvæðið, að þeir sjeu allvel að sjer í bóklegu tilliti, en frábærlega þekkingarlausir í verklegu tilliti. Jeg veit ekki betur en að þetta sje almennt

viðurkennt, — það er dómur útlendra manna og Íslendingar játa það sjálfir. Samt sem áður er af hálfu landstjórnarinnar meira gert til að bæta bóklega en verklega menntun landsmanna. Það sje fjarri mjer að andmæla tilraunum í þá átt fyrir annað en það, hve þær eru í molum og ónógar. Það mun almennt viðurkennt, að þegar menntunin aukist, þá fjölgi og þarfirnar. Kröfur menntamanna vorra til lífsins fara eigi minnkandi með vaxandi þekkingu, þeir gera sig ekki að lokum ánægða með að búa í tunnu, eins og heimspekingurinn Diogenes. Ef nokkur samkvæmni á að vera í tilraunum þjóðarinnar til að bæta ástand sitt, þá þurfa bóklegar menntir og verklegar framfarir að haldast í hendur. Það er ekki nóg, að fegurðartilfinningin vaxi og löngunin til að „tolla í tízkunni“, — ekki nóg að þekkja þarfirnar og finna til þeirra. Þannig vaxin menntun er hið sama fyrir þjóðina, og ef sagt er við mann, sem er að fram kominn af kulda og hungri: „verm þig og metta“, en þó ekki bætt úr þörf hans. Slíkt er óheppileg aðferð; það þarf einnig að stuðla að því, að bætt verði úr þörfunum; það þarf að bæta og auka iðnað allan, smíðar, tóvinnu og því um líkt; það þarf að kenna það, ekki eingöngu bóklega, heldur og sýna það með verklegum framkvæmdum, hvernig auka megi afurðir landsins, hagtæra þeim á sem beztan hátt innanlands, og gera sem mest verð úr því, sem selt er út úr landinu, svo að þær geti sem bezt fullnægt þörfunum.

Einn maðurinn, sem Sim kom mjer í kynni við, heitir T. C. Eastwood (frb. íst‘-wúdd). Þegar Sim sagði honum frá erindi mínu, og að mjer mundi holl hans liðveizla, svaraði Eastwood því, að hver sá maður, sem Sim vildi mæla með sem vini sínum, væri sjer hjartanlega velkominn. Englendingar kalla hvern þann „vin“, sem búið er að sýna (præsentere), og sem þeir hafa tekið að sjer að leiðbeina eða vera hjálplegir. Maðurinn er þá nefndur „vinur“ þess, sem sýnir hann.

Fatnaður Eastwoods var úr úlfaldaull eins og klæði Jóhannesar skírara. Úlfaldar eru áþekkir að lit bleikum hesti. Ullin af þeim er líkust hári af loðhundi,

hún er fremur stutt í sjer og togið gróft. Pundið af henni kostaði í Bradford seint í okt. f. á. rúma 43 aura. Ull af skozku svarthöfðafje – en hún er einhver sú lakasta sauðaull, sem á markaðinn kemur — kostaði tæpa 54 aura; sunnlenzk ull (af Íslandi) tæpa 58 aura og norðlenzk fulla 62 aura. Af þessum verðmun má gera sjer dálitla hugmynd um gæðamuninn. Samt verður að gæta þess, að í verksmiðjunum er í lengstu lög hægt að vinna eitthvað úr ullinni, hversu vond sem hún kann að vera. Verksmiðjueigendurnir gera því miklu minni verðmun á ullinni eftir gæðum, heldur en bóndi hjer á landi mundi gera, ef hann keypti ull til heimavinnu; honum kæmi ekki til hugar að gefa rúma 43 aura fyrir pund af úlfaldaull, ef hann gæti fengið norðlenzka ull á 62 aura. Hjer á landi mundi líklega ekki reynt að tæta úr úlfaldaull annað enn reipi og ef til vill gólfábreiður. Ef dúkurinn í fötum Eastwoods hefði verið unninn og hafður á boðstólum hjer á landi, hefði engum dottið í hug að kaupa hann til annars, en að hafa hann í óvandaðasta slitfatnað eða hríðarúlpur. Eastwood gat reyndar notað fatnaðinn hversdagslega í fjölmennri borg. Sennilegt er, að dúkur þessi þætti einnig góður og seldist vel hjer á landi, ef hann væri fluttur hingað frá útlöndum.

Eastwood hefir mikið fengizt við að finna upp og endurbæta kembivjelar og fleiri tóvinnuvjelar. Hann hafði á ritstofu sinni sýnishorn af vjel, sem á að melja öll hörð óhreinindi í óþveginni ull. Þetta sýnishorn átti að fara á sýningu, sem þá átti bráðum að halda í Ameríku. Aðra vjel hafði hann í smíðum, sem á að reyta sundur flóka í ullinni.

Sunnudaginn, sem jeg var um kyrt í Bradford, fylgdi Eastwood mjer út í skemmtigarð, sem er nefndur „Lister's park“; þar var ógurlegur fjöldi af mönnum saman kominn. Garður þessi er, eins og aðrir slíkir skemmtigarðar, prýddur alls konar skrautplöntum, trjám og blómum. Í honum er og jurtabaðstofa (á dönsku *Drivhus)*, eins og jafnan er í grasafræðigörðum, en skemmtigarðar eru, eða geta verið jafnframt, æfingastaðir fyrir grasa-

fræðinga. Gangvegir eða stigir, lagðir möl, liggja um garðinn þvert og endilangt. Til beggja hliða eru þá ýmist sljettir grasbalar, blómreitir eða trjárunnar. Sá maður, sem ekkert hefir áður sjeð í líkingu við þetta, hlýtur að dást að því, hvernig náttúran og íþróttin verða samtaka um að skreyta þessa skemmtigarða. Í garðinum skammt frá innganginum úr borginni er myndastytta manns nokkurs, er Lister heitir, og við einhvern ættmann hans er garðurinn kenndur. Af því að jeg get ekki gefið neina fullnægjandi lýsingu af garðinum, skal jeg í þess stað segja þjer sögukorn af Lister þessum, sem myndastyttan er af.

Lister er af gamalli og góðri aðalsætt í Jórvíkurhjeraði (Yorkshire). Þessi ætt var þar á dögum Játvarðar annars Englakonungs (1307—1327). Lister er fæddur 1815. Hann átti í fyrstu að verða prestur, en hann hafði svo sterka löngun til verzlunar, að þegar hann hafði lokið námi sínu á lægri skólum, kom hann sjer fyrir við verzlun í staðinn fyrir að ganga á háskóla. Hann kom oft til Ameríku í verzlunarerindum; við það kynntist hann Ameríkumönnum, uppfundningum þeirra og verzlun. Í Manningham, rjett hjá Bradford, reisti hann síðan ullarverksmiðju í fjelagi við bróður sinn. Þá varð hann þess fljótt var, hve óhaganlegt var að kemba ullina með handafli. Þá fjekk hann mann einn í fjelag við sig, er hafði fengizt við að finna upp kembivjel, en ekki fullkomnað hana. Eftir margra ára erfiði og mörg hundruð þúsund punda kostnað, tókst þeim loks að fullkomna vjelina. Þá var björninn unnin. Árin 1850—52 fengu þeir fjelagar fjölda mörg einkaleyfi. Lister hafði svo mikið að gera við að kemba ull, að hann hrökk ekki til; hafði hann af því miklar tekjur; auk þess hafði hann stórmiklar tekjur af einkaleyfisrjettindunum, eða 1000 pund sterling á ári fyrir vjel hverja.

En þetta er að eins undanfari merkilegra starfs. Eitt sinn kom Lister inn í geymsluhús nokkurt í London, og sá þar hrúgu mikla af einhverju; var það líkast sorpi, sem fleygt hefði verið afsíðis. Hann hafði aldrei sjeð neitt líkt þessu fyrr, svo að það vakti eftirtekt hans.

Hann spurði hvað þetta væri. Svar: „Úrgangur úr silki“. Lister: „Hvað er gert við það?“ Svar: „Það er selt eins og sorp, það er ómögulegt að gera nokkuð úr því“. Reynt hafði verið að nota það fyrir áburð, en það gat ekki fúnað ofan í jörðina, svo að ekki var hægt að nota það til þess, því síður annars. Lister skoðaði „sorpið“ vandlega, og þótt það liti ekki glæsilega út, er það var fullt af dauðum ormum, kvistum, visnu laufi og alls konar óhreinindum, sýndist honum samt sem eitthvað mætti „gera úr því“. Lister bauð rúma 4 aura fyrir pundið, og eigandinn tók því boði með þökkum. Silkisorpið var flutt heim til Listers, hann skoðaði það á ný, og sú skoðun staðfesti fyrra álit hans.

Nú var tekið til óspilltra málanna, Lister dró að sjer frá ýmsum löndum fjölda af mönnum, sem kunnu að silkivinnslu, og lærði sjálfur allt sem hann gat um það efni. Það þurfti að finna upp vjelar, til að vinna silki úr hroðanum, og það gengu til þess nokkur ár, og árið 1865 var svo langt komið, að vinna mátti úr honum seljanlegar vörur, en mikið vantaði á, að allar vjelarnar væru fullkomnar. Ágóðinn af ullarkembingunni var þá mjög farinn að skerðast, svo að sá eini maður, sem nú var í fjelagi við Lister, dró sig í hlje og heimtaði skifti, áður en allt færi um koll. Þá var skaðinn metinn hálf 5. miljón króna. Eftir þetta var Lister einn um hituna. Ekki hafði hann heldur neina keppinauta í þessari atvinnugrein. Þegar hann var búinn að fullkomna vjelarnar og hafði einkaleyfi til að búa þær til og nota, hafði hann ákaflega miklar tekjur. Það stóð hjerum bil heima, að þegar einkaleyfistímabilin vóru liðin, var hann búinn að vinna upp kostnaðinn við uppfundningarnar. En nokkrir verkstjórar Listers sættu lagi, þegar einkaleyfin vóru á enda, yfirgáfu hann, settu á stofn fjórar silkiverksmiðjur og urðu þannið keppinautar hans. Helzti vjelfræðingurinn var í þeirra hóp; honum hafði verið trúað fyrir lyklunum að vinnustofunum, og hafði hann á sunnudögum stolizt til að gera uppdrætti af vjelunum, svo að nú gat hann smíðað aðrar

eins vjelar. Þessir keypinautar ultu um koll eftir stuttan tíma.

Ein seinasta, kostnaðarsamasta, og þó jafnvel einnig arðsamasta uppfundning Listers er hinn tvöfaldi silkiflöjels-vefstóll. Spánverji nokkur kom með hann frá Spáni til Englands, en hann var svo ófullkominn, að hann varð ekki notaður. Vefstóll þessi hafði orðið fyrri eigandanum að skaða, en nú er búið að endurbæta hann svo mikið, að hann er með arðsömustu vjelunum. Í honum eru ofnir tveir dúkar í senn; floshliðarnar á flöjelinu vita saman; þær eru skornar hvor frá annari um leið og ofið er. — Lister heldur að hann hafi keypt fleiri einkaleyfi en nokkur annar maður, jafnvel fleiri en Edison.

Árið 1871, þann 25. febrúar, brunnu allar verksmiðjur og vjelar Listers til kaldra kola. Skaðinn var metinn 70 þúsund pund sterling, og tveir menn brunnu inni. Meðal vjelanna, sem fórust, var silkiflöjelsvefstóllinn, en til hamingju varð uppdrættinum bjargað. Á sama stað vóru síðan reist verksmiðjuhús þau sem nú eru þar, Þótt margar slíkar byggingar sjeu stórkostlegar í Jórvíkurhjeraði, eru þessar samt einna stærstar, og þessi silkiverksmiðja er stórkostlegust í heimi. Verksmiðjuhúsin standa á svæði, sem er rúmar 14 vallardagsláttur að víðáttu. Sum húsin eru með sex gólfum fyrir utan kjallara, svo að gólfrúmið er samtals $20^1/_2$ vallardagslátta. Húsin eru öll af steini og járni, og eru eldtraust. Skrautlegri eru þau en títt er um slíkar byggingar, svo að þau eru líkari skrauthýsum en verksmiðjum. Vinnustofurnar eru rúmgóðar og það er sjeð fyrir loftbreytingu (ventilation) og öðrum þægindum verkmönnunum til handa. Vjelarnar sjálfar eru smíðaðar í þessum húsum, svo að allt fer fram innan sömu veggjanna, frá því fyrst er byrjað að gera uppdrátt af vjelinni, og þangað til dúkurinn er fullgerður. Margt af smíðum þessum eru leyndarmál Listers og verkmanna hans. Fáum leyfir hann að skoða vjelarnar, og engum, sem sjálfur vinnur silki og sem hann

getur óttazt fyrir að læri eitthvað af því að skoða vjelarnar.

Einn er reykháfur fyrir allar byggingarnar, og má sjá hann víða að úr borginni og þar í grennd, því að hann er rúmir 40 faðmar á hæð. Efnið í hann var nær því 8000 smálestir. Hann er ferstrendur, tíu fet á vídd að innan; þá smá-víkkar hann uppeftir, svo að hann er ellefu fet efst. Þetta er gert til þess, að reykurinn hafi rýmri útgöngu, því að hann þenst út, eftir því sem hann kemur ofar í reykháfinn, en flestir byggja reykháfa gagnstætt þessu, eða þrengsta að ofan.

Gufuvjelarnar hafa samtals öfl 3620 hesta, og verkamennirnir eru yfir 4000. Lister hefir byggt handa þeim þorp nokkurt rjett hjá verksmiðjunum. Í þorpi þessu eða bæ eru íbúðarbús svo að hundruðum skiftir og sex breið stræti. Þar er skóli fyrir börn verkamannanna, mjög snotur bygging, sem tekur 600 börn.

Efnið, sem þarf til að vinna úr í verksmiðjum þessum, er fjarskinn allur. Úrgangssilkið eitt saman er um 2 milljónir punda, fyrir utan allt annað silki. Vinnslan á úrgangssilkinu byrjar á því, að tína úr því allan hroða, síðan er það þvegið í heitu vatni og sápu, þurkað, kembt og spunnið. Síðan er ofinn úr því alls konar silkivefnaður, eða það er selt óofið (silkitvinni). Það er ekki einungis að Lister vinni silkið, heldur aflar hann þess einnig. Hann hefir keypt marga búgarða austur á Indlandi, sem eingöngu eru hafðir til silkiræktar. Þar eru nær því eins margir vinnumenn eins og í verksmiðjunum heima. Lister vill ekkert fyrirtæki byrja nema í risavöxnum stíl.

Úr Lister's park sjáum við vel reykháfinn stóra og nokkuð af byggingunum; þegar við erum búnir að fara um garðinn, komum við að styttunni; það er líkneskja Listers úr bronze, nokkuð meira en í fullri stærð. Hún stendur á steinstalli. Á stalli þeim, allt í kring, eru hálfupphleyptar myndir af sauðfje og silkigeitum, sem ullin eða hárið er af, svo og af ullinni og vjelunum, sem vinna hana frá því fyrsta og þangað til hún er orðin að dúkum. Þessar myndir sýna starf Listers áð-

ur en hann tók til við silkið. Borgarbúar í Bradford reistu varða þennan 1875, til heiðurs við Lister fyrir dugnað hans og góðgerðasemi. Það er sjaldgæft, að jafnvel mestu mönnum sje sýndur slíkur heiður, meðan þeir eru á lífi.

Eitt kveldið, sem jeg var í Bradford, bauð Eastwood mjer að koma með sjer á fund íhaldsmanna; sjálfur er hann einn af þeim flokki. Þar vóru um 3000 manna. Ræður vóru haldnar langar og snjallar. Þær urðu lítt skiljanlegar fyrir mig, er jeg var ókunnugur efninu; allt miðaði að því, að rífa niður mótstöðuflokkinn og hans stjórnvizku. Mikið vantaði á, að fundarmenn væru eins háttprúðir og almennt gerist á fundum hjer; menn sitja hjer venjulega þegjandi, með hátíðlegasta sunnudagaandliti, rjett eins og í kirkju, en í Bradford heyrðist stundum varla til ræðumannsins fyrir lófaklappi, athugasemdum, ávörpum og innskotssetningum. Ræðumaður heyrði glöggt, að tölu hans var fylgt með athygli, og hann var heldur ekki í efa um, hvernig áheyrendum geðjaðist að henni.

Salurinn eða skýlið, sem notað er til fundarhaldsins, er eiginlega ætlað og notað til að æfa sig þar inni á skautum. Bygging þessi er úr járnþynnum, eins og þeim, sem hús eru þakin með hjer á landi, og að nokkru úr gleri, svo sem mænirinn. Grindin er eingöngu úr járni. Byggingin er um 24 faðma á lengd og 7 á breidd. Gólfið er rennisljett úr steyptum steini. Skautarnir, sem þar eru notaðir, eru á hjólum.

Einn daginn, sem jeg var í Bradford, fór jeg að hitta jarðeiganda einn, sem býr skammt þaðan. Jeg hefi verið fylgdarmaður hans á Íslandi og bauð hann mjer að finna sig, er hann vissi, að jeg var á Englandi. Nafn hans lætur ekki vel í íslenzkum eyrum, svo að jeg nefni hann hinu alþekkta enska þjóðnafni John Bull, eða Jón Bola; það er líka í samhljóðan við fyrstu stafina í nafni hans. Jeg ætlaði að fara fyrri hluta dagsins, en þegar jeg kom á járnbrautarstöðvarnar, varð mjer dálítil leit úr farseðlaritstofunni, svo að vagnalestin þaut af stað, meðan jeg var að taka á móti farseðl-

inum og jeg varð strandaglópur. Mjer þótti þetta allillt, en það hafði þau góðu áhrif á mig, að það kom ekki fyrir oftar. Ef þú ferðast einhverntíma í útlöndum með gufuvögnum, þá ráðlegg jeg þjer að gæta þess vel, að ætla þjer nægan tíma frá gestahúsinu á stöðvarnar. Þú getur setið í biðsalnum, ef þú þarft að bíða fáeinar mínútur. Þá er gott að hafa í vasanum blað til að lesa sjer til skemmtunar. Verðirðu þar á móti of seinn, þá verður ekki bót á því ráðin; vagnalestirnar standa ekki bundnar, eins og veslings reiðhestarnir okkar, meðan ferðamanninum þóknast að bíða eftir kaffi eða gæða sjer á annan hátt. — Nú varð jeg að senda Jóni Bola orð með ritþræðinum, að jeg kæmi með næstu lest eftir hádegið, og það gerði jeg. Í Englandi kostar það 45 aura, að senda 12 eða færri orð með ritþræði innan lands, og eftir sama hlutfalli fyrir hvert orð, sem fram yfir er. Miklu dýrara er að senda orð út úr landinu, og eftir því dýrara, sem orðsendingin á að fara yfir fleiri ritþráðastöðvar; þannig er gjaldið $187^1/_2$ eyrir fyrir hvert orð frá Englandi til Dakota í Bandaríkjunum, eða 22,50 kr. fyrir 12 orð.

Jón ljet veiðivörð (*gamekeeper*, frb. geim'-kíp-ör) sinn bíða mín á vagnstöðvunum og fylgja mjer heim. Veiðivörðurinn er roskinn maður, gætinn og góðmannlegur. Við fórum ekki veginn, því að hann vildi sýna mjer dálítinn skóg, sem líka mátti fara gegn um; var skógurinn sumstaðar allþjettur. Þótt nú væru komnar veturnætur, mátti sjá það, að vart geta skáldin sagt ofsögum af fegurð skóganna eins og þeir eru á vordegi, þegar allt, sem fegurst er í ríkjum dýra og jurta, keppist á hvað við annað að gera hann fjölskrúðugan og inndælan skemmtistað. Þú veizt að jeg er ekki náttúrufræðingur, svo að þú yrðir víst engu fróðari þótt jeg vildi reyna að lýsa fyrir þjer skógi þessum, eða þeim furðuverkum náttúrunnar, sem hjer var að sjá.

Þegar jeg kom heim, tók kjallaramaður[1] Jóns á móti

[1]) Enska orðið *butler* þýðir kjallaramaður, en þessi maður hafði fleira á hendi en að gæta kjallarans; hann var jafnframt ráðsmað-

mjer, og annaðist um að mjer liði vel, þangað til jeg gat hitt hann sjálfan. Jón Boli er ungur maður ógiftur, glaður og gestrisinn heim að sækja; hann sýndi mjer allt, sem hægt var á svo stuttum tíma, af skrauti og gripum bústaðarins, eða hallarinnar, sem hann er nefndur á ensku. Hann spurði og hvernig þeim liði, sem hann hafði kynnzt á Íslandi. Eftir nokkra stund var orðið dimmt. Jón þurfti burt um kveldið, og kom ekki heim fyrr en eftir háttatíma. Morguninn eftir þurfti hann af stað kl. 7 á skotmörk. Jeg gat að eins kvatt hann, og sá hann ekki eftir það. Veiðivörður hans og kjallaramaður gerðu allt sem þeir gátu til að skemmta mjer.

„Höll“ þessi er vel sett, og virðist skemmtilegur bústaður, enda er ekkert sparað til þess að hlynna að honum og gera hann sem yndislegastan. Byggingin er stór og vönduð, og eru í henni margar vistarverur. Í uppgöngunni upp á fyrsta sal var raðað á vegginn fuglum; þeir vóru stoppaðir og settir upp á sama hátt og vant er á náttúrugripasöfnum, í skápum með glerhurðum. Meðal fuglanna var hrafn og 2 eða 3 rjúpur, sem Jón hafði skotið á Íslandi, og margir fuglar, sem hann hafði skotið í Noregi, auk fjölda af enskum fuglum. Á húsabaki, örstutt frá höllinni, er dálítil tjörn, 25 ekrur (um 18 engjadagsláttur) á stærð og ensk míla umhverfis. Í henni eru 2 litlir hólmar eða sker, líklega gerð af mannahöndum, og eru þau skógi vaxin. Á tjörninni vóru álftir, endur og fleiri fuglar. Tjörn þessi var nefnd „stöðuvatnið“ og skerin „eyjarnar“. Um morguninn fórum við kjallaramaður og veiðivörður fram á tjörnina til veiða, og fengum 24 smáfiska. Víst hefir enginn þeirra vegið yfir $^{1}/_{2}$ pund, en sumir minna. Ólíkir vóru þeir að útliti öllum þeim fiskategundum, sem jeg hefi sjeð hjer á landi.

Ekki notar Jón sjálfur svo sem neitt af landi sínu, heldur leigir hann það öðrum, nema skotmörk alla; hana

---

ur eða bryti, og hafði umsjón með öllum matarkaupum ekki síður en vínkaupum.

notar hann sjálfur sjer til skemmtunar og jafningjum sínum. Leigan eftir landið er oft 54—63 kr. eftir ekruna. Hann kaupir allar húsnauðsynjar, svo sem kjöt, smjör, mjólk, hey og fleira af leiguliðum sínum. Á löndum þessum er ræktað gras og haldinn fjenaður, sauðpeningur og nautgripir. Það hlýtur að vera arðsamt, ef leiguliðinn getur haft af því uppeldi sitt og sinna, auk leigunnar. Ekki borgaði það sig vel hjer á landi, að gjalda 43—50 kr. eftir vallardagsláttuna.

Jón átti 4 hesta, og eru þeir hafðir í húsinu árið um kring, nema þegar eitthvað er gert með þá. Fullorðinn maður hafði ungling sjer til aðstoðar til að hirða þá, enda var hirðingin góð. Einn blett af landi sínu notar Jón sjálfur; það er garður, ekra að stærð. Þar eru ræktaðar margs konar matjurtir, skrautplöntur og blóm. Dálítil jurtabaðstofa er í sambandi við garðinn. Í henni eru ræktaðar ýmsar þær jurtir, er að eins þrífast í hlýrra loftslagi en er á Englandi, svo sem vínþrúgur og fleira því líkt. Í jurtabaðstofunni uxu og einkum blóm, er fyrirfólkið hefir til að skreyta með sjálft sig og húsið við hátíðleg tækifæri. Þrír garðyrkjumenn hirða blett þennan og jurtabaðstofuna, og má geta nærri, að arðurinn svarar minnstu af kostnaði þeim, er til þess gengur. Jurtabaðstofan er hituð árið um kring.

Frá Bradford fór jeg til Manchester hinn 24. okt. eða laugardaginn fyrsta í vetri. Landið, sem jeg fór nú yfir, er miklu hæðóttara en milli Bradford og Nýjakastala, enda sá jeg það á loftvoginni, að landið hækkaði. Víða lá járnbrautin gegn um hæðir, og var þá farið í svarta myrkri, stundum svo nokkrum mínútum skifti, þótt farið væri með fullri ferð.

Það var fljótsjeð, að Manchester er miklu stærri borg en Bradford eða Nýikastali, enda eru í Manchester full 400 þúsund íbúa. Það var oft tafsamt, að komast um götuna fyrir mannfjölda og umferð vagna af öllu tagi. Jeg settist að í gestahúsi ekki mjög langt frá vagnstöðvunum. Gestahús þetta er allstór bygging; í því eru um 100 svefnherbergi fyrir utan borðsali, baðherbergi, knatt-

borðsal (*billiard room*, frb. bil'-jörð rúm), drykkjustofur, lestrarsal, ritstofu fyrir gestina og enn fleiri herbergi. Svefnherbergið og hirðing á því kostaði rúmar 4 kr. um sólarhringinn, málsverðir, sem jeg vissi um, kostuðu frá 2,25 kr. til 3,15 kr., en víst hafa það verið einhverjir þeir ódýrari, einn tóbaksvindill 30—45 aura. Meðalviðurgerningur kostar því þar um 12 kr. um sólarhring, fyrir utan munaðarvöru, ef hennar er neytt og drykkjupeninga, sem svo eru nefndir, eða aukaþóknun, sem ekki má vanrækja að gefa þjónunum; það er ávalt venja á slíkum stöðum, og mundi ekki mælast öllu betur fyrir, ef það væri vanrækt, en ef svikizt væri um að borga veitingamanninum reikninginn.

Það var sjaldan heiðríkt loft þessa daga, sem jeg var á Englandi, en þetta laugardagskveld var þó heiðríkt og tunglsljós, en tunglsljóssins gætti ekki fyrir gasljósum á götunni og rafmagnsljósum í búðunum. Það er sjaldan eins mannmargt á götum í borgunum eins og á laugardagakveldin, þegar gott er veður. Það mátti líka svo að orði kveða, að gatan (12—15 faðmar á breidd), væri full af fólki; vagnaumferðinni var hætt, og þó var enn þá þrengra á götunum en þegar jeg kom um daginn. Þjer þykir það líklega undarlegt, en reyndar mun þó mörgum finnast það svo, að einveran sje hvað tilfinnanlegust útlendingnum, einmitt í þessum ógurlega mannfjölda. Enginn þekkir annan, enginn ávarpar annan, nema nauðsyn beri til. Þegar jeg var kominn inn í herbergið mitt og sat þar aleinn, þá fann jeg ekkert til einverunnar. Jeg var að hugsa heim til Íslands og óska því góðs vetrar.

Í Manchester vildi jeg hitta mann einn, sem jeg hefi verið með á Íslandi, og nefni jeg hann Hróbjart á íslenzku. Það var um hálfa mílu eða meðal bæjarleið frá járnbrautarstöðvunum heim að húsi hans Á laugardaginn var hann ekki heima, svo að jeg fór að finna hann á sunnudagsmorguninn, og var hann þá heima. Seinast áður fundumst við á Íslandi í sumar er leið (1885); sagðist hann þá skyldu fylgja mjer, ef jeg kæmi til Englands, eins og jeg hefði fylgt sjer á Íslandi.

Þegar jeg sótti hann heim, tók hann mjer mjög alúðlega, og efndi orð sín hvað fylgdina snerti, því að ef hann gat ekki fylgt mjer sjálfur, ljet hann aðra gera það. Munurinn á fylgd minni og hans var sá, að hann borgaði mjer fullt gjald fyrir fylgdina hjer, en tók enga borgun fyrir neitt ómak, sem hann hafði fyrir mjer á Englandi.

Hróbjartur er fangelsisstjóri (governor) við stórt vinnufangelsi; þar geta verið um 800 fangar. Á Englandi eru allir skemmtistaðir lokaðir á sunnudögum, og eins ritstofur. Nú var því ekkert hægt að fara sjer til skemmtunar og ekki heldur hægt að reka erindi. Reyndar er fangelsi enginn skemmtistaður, en samt var mjer forvitni á að sjá það, enda var það hendi næst, og Hróbjartur bauðst til að sýna mjer það. Fangaklefarnir eru í þremur byggingum, löngum og mjóum, með fjórum gólfum. Byggingarnar sameinast allar í einum miðdepli. Gangur er eftir hverri byggingu endilangri og fangaklefarnir til beggja hliða. Á hverri hurð eru tveir seðlar; á þeim eru ýmsar upplýsingar um fangann, svo sem nafn hans, stjett, aldur, afbrot, hvort fyrsta eða ítrekað, lengd hegningartímans, hve nær hann hafi komið í fangelsið og enn fleira. Einn maður stendur ávallt á verði á miðdeplinum á hverju gólfi og getur sjeð út í alla gangana. Ekki sá jeg fangana við vinnu í þetta sinn, því að sunnudagur var og þeir vóru í kirkju, en hún er áföst við fangelsið og gengið í hana þaðan.

Í fangelsinu vóru það einkum vefstólarnir, sem jeg vildi veita eftirtekt. Fangarnir vefa í þeim 14—16 álnir á dag af fínu ljerefti, og er sennilegt, að á þeim 16 álnum sjeu ekki færri skil en á 30—40 álnum af vaðmáli, þó ekki mjög stórgerðu. Vefstólarnir vóru mjög líkir vefstólum þeim, sem hjer eru tíðkanlegastir, að öðru enn því, að skyttunni er ekki skotið gegn um skilið með höndunum beinlínis, heldur eru höfð til þess bönd. Þetta er nefnd „slagskytta“, og er þessi útbúnaður á vefstólum í fangahúsinu í Reykjavík; þótt hann sje mjög einfaldur, býst jeg ekki við að lýsingin ein geti komið að notum, og sleppi henni því hjer. Eftir

því sem jeg hefi heyrt lýst vefstól þeim, sem Gunnar Ólafsson í Keldudal í Skagafirði nú hefir, mun hann fullkomnari og betri. Þeir sem hafa hug á að efla og auka heimilisvinnu, ættu því að læra hjá Gunnari að vefa á hans vefstól, ef hann á hægt með að kenna það. Síðan þurfa þeir, sem lært hafa, að fá sjer annan eins vefstól frá útlöndum, ef ekki er hægt að smíða hann hjer á landi. Vefstólarnir í fangelsinu eru þannig gerðir, að efra rifinn má taka úr þegar vill. Þráðurinn er ekki undinn á rifinn í vefstólnum, heldur er rifurinn hafður í föstum skorðum á öðrum stað, þar sem betra er rúm enn í klefunum. Á þessum stað er undið á alla rifina, og þeir síðan látnir í vefstólana. Allir vefstólar ættu að vera svo smíðaðir, að þetta væri hægt, því að oft er rúmlítið þar sem vefstóllinn er hafður, en ekki þyrfti að nota þetta nema í viðlögum. Smíðið á vefstólnum yrði svo sem engu vandasamara.

Englendingum er ekki tamt að búa til verkfæri, sem ljetti heimilsvinnuna, eða sje löguð fyrir hana, en nauðsyn hefir neytt þá til að smíða þessa vefstóla. Vinnufangarnir eru svo þúsundum skiftir, og þeir vilja láta að minnsta kosti suma þeirra vefa. Áður vóru fangarnir látnir snúa sveif innan á klefaveggnum. Í veggnum sjálfum var þá útbúnaður nokkur eða vjel, sem gerði fanganum verkið mjög erfitt, en utan á veggnum, sem horfði fram í ganginn, var kringlótt spjald með vísi á, er hreyfðist ofur hægt, og benti á tölur, er sýndu hve marga snúninga fanginn var búinn að hreyfa sveifina. Fanginn varð að sæta refsingu, ef nokkuð vantaði á tölu þá, sem ákveðin var. Nú eru fangarnir látnir vinna eitthvað þarft, og er það skynsamlegra.

Seinna um daginn fór Hróbjartur að sýna mjer dýragarð, sem ekki er langt frá húsi hans. Garður þessi er eign eins manns, sem byrjaði þar fyrst dálitlar veitingar; seinna fór hann að sýna einstöku fásjeð dýr og jók það mjög aðsóknina; honum græddist fje, hann fjölgaði dýrunum, svo að nú er dýragarður þessi allstór; að minnsta kosti virtist mjer hann fullkomnari en dýragarðurinn (Den Zoologiske Have) í Kaupmannahöfn var, þegar jeg

var þar árið 1882. Hjer var sæljón, sem svo er nefnt; það er af selakyninu og hefir öll helztu einkenni selsins; það hafði vænan sundpoll, allan steinlagðan til að leika sjer í, og ljek margar íþróttir. Hjer vóru 5 eða 6 úlfaldar af tveim tegundum, nashyrningur og vatnahestur (hippopotamus). Ekkert af þessu var í dýragarðinum í Kaupmannahöfn, þegar jeg vissi til. Hjer var íslenzk tóa, sem Hróbjartur hafði útvegað á Íslandi. Ensk tóa, sem líka var í garðinum, er að sumu leyti líkari íslenzkum hundi en tóu; eyrun eru stór og sperrt, og skottið minna en á tóunni hjer. Íslenzka tóan er miklu lymskulegri, og á því betur við lýsinguna af tóunum í dæmissögunum.

Daginn eftir, 26. okt., fór jeg til Oldham. Hróbjartur ljet einn af undirmönnum sínum verða mjer samferða, til að leiðbeina mjer. Maður þessi var mjög gætinn og skynsamur í tali, og jafnframt glaður og viðfelldinn, og reyndist mjer góður förunautur. Það bregzt líka sjaldan, að góðir drengir (gentlemen), í orðsins rjettu og góðu merkingu, hafi vandaða menn í þjónustu sinni. Svo var um Hróbjart, að því er snertir þá af undirmönnum hans, er jeg kynntist lítið eitt; sjálfur er hann góður drengur.

Í Oldham vildi jeg komast eftir um verð á tóvinnuvjelum, sem fjelagið Platt Brothers & Co. býr til. Jeg hafði meðmælabrjef frá umboðsmanni fjelagsins í Bradford, T. C. Eastwood, sem fyrr er nefndur. Hann sagði mjer að fjelag þetta hefði 9000 menn í vinnu, og borgaði 180 þúsund krónur í verkalaun á hverju laugardagskveldi, en í Oldham var mjer sagt, að það hefði 11,000 þjóna. Starfstofurnar eru fjölda margar og nokkrar ritstofur. Okkur var vísað frá í fyrstu ritstofunni og annari, en við fengum áheyrn í þeirri þriðju. Við gengum gegn um margar starfstofur, þar sem verið var að smíða ýmsar tóvinnuvjelar eða reyna þær; þar var kembd og spunnin ull og baðmull, eingöngu til að reyna vjelarnar. Á einum stað gengum við eftir löngum gangi, hann var aðskilinn frá starfstofunni með lágu skilrúmi. Gangur þessi var 32 faðmar að lengd,

og virtist svo sem ein starfstofa væri hinum megin við skilrúmið, en það var svo hátt, að ekki sá yfir. Þegar við höfðum lengi rætt erindið við einn af vjelfræðingum fjelagsins, rituðum við að lokum nöfn okkar í gestabók (visitors' book) ritstofunnar.

Þegar við komum aftur til Manchester, fengum við að skoða bæjarþingshöllina þar. Bæjarþingshöll nefni jeg stórhýsi það, sem Englendingar nefna *Town Hall* (frb. tán holl). Í öllum borgum er eitthvert stórhýsi, sem nefnt er þessu nafni eða líku, og hefir bæjarstjórnin það til að halda þar fundi sína og veizlur, taka á móti höfðingjum og til margs fleira, sem bæinn allan varðar. Bæjargreifinn (mayor) varð til þess sjálfur að sýna okkur höllina; það er mikið og skrautlegt mannvirki; í henni eru yfir 300 herbergi, og það kostaði 18 miljónir króna að byggja hana og prýða að öllu leyti, enda er frágangurinn hinn vandaðasti. Þar eru geymdar myndir af merkum mönnum og viðburðum úr sögu borgarinnar og fleira af menjagripum hennar. Víða eru herbergin skreytt með skurðverki (Billedskærerarbejde) af eik, enda er innanbygging og húsgögn mest af eik, og gólf öll lögð eikarspónum þannig, að ýmsar myndir koma fram. Gólfdúkur var í einum stærsta salnum, 35 álna langur og 15 álna breiður, allur ofinn í einu. Það hafði verið smíðað vefstólsbákn mikið eingöngu til þess að vefa hann í. Það er tíðast, að þeir sem sýna útlendum mönnum eða gestum það merkasta, sem til er í borg þeirra, haga svo orðum, að þetta og þetta standi hæst í einhverju tilliti á svo eða svo stóru svæði. Bæjargreifinn sagði, að þessi bæjarþingshöll væri álitin haganlegust og með beztu fyrirkomulagi af öllum sams konar húsum í Norðurálfunni, og þá líklega í öllum heimi, því að líklega telja Englendingar sig fremsta þjóð í Norðurálfu og Norðurálfu fremsta af hlutum heimsins.

Um kveldið ljet Hróbjartur sama manninn, sem var með mjer um daginn, fara með mjer á skemmtistað, sem er nefndur *Grand Circus*. Þótt staður þessi hjeti Circus, hafði hann fæst einkenni þeirra staða, sem svo eru nefndir, heldur var byggingin að flestu lík leikhúsi, og

að sumu leyti betur úr garði gerð en leikhúsin í Englandi; hjer vóru þó sætin merkt með tölum, en það var ekki í enskum leikhúsum, er jeg sá.

Á þessu leiksviði var, meðal annars, maður nokkur, sem sýndi íþrótt sína með því, að draga upp mannsmynd, á meðan sungið var stutt vers, en það hljóðaði um þann er myndin var af. Myndin var jafnan svo lík, að allir kunnugir þekktu hana vel. Mynd Victoríu drottningar gerði hann meðan sungið var stefið: „God safe the queen“ (ɔ: Guð varðveiti drottninguna), sem er með laginu „Eldgamla Ísafold“. Þannig tók hann myndir af Gladstone, Salisbury og ýmsum fleiri. Áhorfendurnir vóru mjög hrifnir og klöppuðu lof í lófa í sífellu.

Að því búnu kom fram á sjónsviðið maður nokkur, sem nefndur var ‘prófessor‘ Kennedy. Hann kvaðst kunna þá íþrótt og vera gæddur þeim hæfilegleikum, að hann gæti stungið svefnþorni (mesmerized) þá menn, sem væru móttækilegir fyrir þau áhrif. Jeg nefni þetta svefnþorn vorrar aldar, því að svefnþorn er nefnt í þjóðsögum vorum og sumt hefir verið líkt við það og þetta, en greinilegar sagnir vanta um, hvernig gamla svefnþornið átti að vera. Þjóðverji nokkur, Franz Mesmer (f. 1733, d. 1815), fann fyrstur þetta nýja svefnþorn, og við hann er íþróttin kennd, nema á dönsku er það nefnt *at magnetisere* (ɔ: segulmagna), því að kraftur sá sem hjer er starfandi, er nefndur dýrasegulmagn; það getur streymt frá einum manni (eða dýri) til annars, veikir það þá annaðhvort þann sem fyrir straumnum verður, eða styrkir heilsu hans. Kennedy þessi taldi svo til, að það hefði áhrif á tíunda hvern mann, en engin áhrif á hina níu.

Einir 20—30 af áhorfendunum hlupu inn á leiksviðið til þess að prófessor Kennedy reyndi íþrótt sína á þeim; þeir settust á stóla og hann skipaði þeim, að krossleggja hendurnar framan á sjer og leggja aftur augun. Síðan strauk hann með fjórum gómum hægri handar ofan gagnaugað vinstra og jafnframt með þumalfingursgómi af enni niður milli augnanna á nef ofan.

Þetta gerði hann nokkrum sinnum. Það hafði þau áhrif á suma þeirra, eða svo ljetu þeir að minnsta kosti, að þeir misstu gersamlega meðvitundina, og hann gat látið þá leika fyrir sig alla þá fíflaleiki, sem honum gott þótti, síðan vakti hann þá aftur þegar honum þótti nóg komið af svo góðu, og gerði hann það með álíka íþrótt og að svæfa þá, en með öðrum handtökum. Það virtist sem hann ekki gera annað en smella fingrunum við eyra þeim og hrukku þeir þá saman, eins og vöknuðu þeir við illan draum, er þeir vóru komnir fram á leiksviðið í nærklæðunum einum, eða þeir vóru í átökum við einhvern fjelaga sinn meðvitundarlausan, eða eitthvað þessu líkt. Þeir urðu sneyptir og hlupu óðara á bak við tjaldið, sem var fyrir aftan leiksviðið.

Áður en jeg kom á þennan stað, heyrði jeg Hróbjart og lækninn við fangelsið tala um íþrótt manns þessa; hjelt Hróbjartur að þetta væri svo sem prófessor Kennedy segði og það sýndist vera. Aftur á mót kvað læknirinn meðvitundarleysi þetta skrópa eina og saman tekin ráð þessara manna við Kennedy. Jeg hugði lækninn áreiðanlegri heimild í þessu tilliti og horfði því einlægt á leikinn með vantrú; samt sem áður var það góð skemmtun að horfa á og sjá, hvernig þeim tókst að leika. Reyndar leit svo út stundum, sem þeir væru ekki eins meðvitundarlausir eins og þeir ljetu. Þar á móti ljeku sumir svo vel, að ekki var útlit fyrir annað en að þeir væru í raun og veru meðvitundarlausir, og skal hjer lýst einu slíku dæmi af nokkrum. Kennedy gerði mann einn meðvitundarlausan og alveg stirðan eins og rekabút; fyrst fætur og læri, síðan handleggi og búk allan. Þá var maðurinn lagður á bakið yfir tvö stólabök þannig, að annað þeirra var um þvert undir þar sem háls og herðar mætast, en hitt undir kálfunum neðst. Holt var undir líkamann að öðru leyti, en stólunum var haldið svo að þeir vóru stöðugir. Þá stje Kennedy sjálfur upp á kvið hans og stóð þar með öllum þunga sínum, en hinn gugnaði lítið eða ekki. Kennedy var þó vel feitur og leit út fyrir að vera þungur. Þetta sýndist vart mögulegt, ef maðurinn hefði að eins látizt

vera stirður en ekki verið það í raun og veru, nema einhver önnur brögð hafi verið í tafli.

Mörg skrípalæti vóru þeir látnir leika. Einum var t. d. fengið ofur lítið prik, rúm alin á lengd, og sagt að það væri fiskistöng, en þær eru oftast um 7 og 8 álnir á lengd. Maðurinn dinglaði priki þessu langan tíma fram af leiksviðinu til áhorfendanna, eins og það væri fiskistöng og áhorfendasviðið væri vatnsfall, þar sem hann væri að fiska. Stundum vóru áhorfendurnir að kippa í spotta, sem bundinn var um endann á prikinu; hjelt hann þá að fiskur væri að taka. Þegar maðurinn var vakinn, varð honum hverft við að sjá, hvar og hvernig hann var staddur, og hvarf sviplega af leiksviðinu.

Einna skringilegastur var þó einn leikur. Tveir menn vóru segulmagnaðir. Annar þeirra var stór vexti en hinn lítill. Stóri maðurinn hjelt að hann væri stúlka og væri kærasta litla mannsins. Litli maðurinn kannaðist við unnustuna, en þurfti að klifra upp um hana til þess að kyssa hana. Margar fleiri slíkar íþróttir vóru ýmsir og ýmsir látnir leika þar; oft varð af því mikill hlátur meðal áhorfendanna. Ekki kváðust menn þessir muna neitt eða vita, er þeir vöknuðu, hvað fram hefði farið meðan þeir vóru meðvitundarlausir.

Frá Manchester fór jeg 27. október áleiðis til London; var þá kalt veður. Nokkurn hluta dagsins tafði jeg í litlum bæ á leiðinni, en þó nær Manchester, og heimsótti þar einn fjelaga Hróbjarts úr Íslandsferðinni, en hann ljet vagnstjóra[1] sinn aka mjer út á búgarð einn, sem var rúma eina mílu þaðan, og var klárinn látinn brokka það á einum 40 mínútum. Á búgarði þessum bjó þriðji ferðafjelaginn, en hann var ekki heima. Heimsóknin lenti þá mest í því, að bóndinn sýndi mjer gripastólinn; flest var af nautgripum og nokkuð af svínum, en engin sauðkind. Allir vóru gripirnir föngulegir og heldur vel hirtir. Verðlaun höfðu

[1]) Vagnstjóri hjá embættismönnum og heldra fólki á Englandi er nefndur á ensku *groom* (frb. grúm), og er hann í einkennisbúningi.

verið veitt á nautgripasýningu fyrir eina kúna. Hún var fjarska-stór vexti og holdmikil, en mjólkaði fremur lítið.

Frá bæ þessum var gufuvagnalestin rúma fimm klukkutíma til London, og kom jeg þangað seint um kveldið. Maður einn í London, sem jeg þekkti, var búinn að bjóða mjer að vera þar hjá sjer í nokkra daga, og ljet jeg aka mjer til hans í leiguvagni þegar frá vagnstöðvunum. Á íslenzku mun rjettast að nefna mann þennan Arnþór. Hann var ekki heima, en hafði sagt fyrir, að taka skyldi á móti mjer. Hann kom ekki heim fyrr en seint daginn eftir. Bústaður Arnþórs er í útjaðri borgarinnar, og er sá hlutinn af London nefndur Kensington. Þar eru fáar sölubúðir, og svo fámennt á götunum, að mjer þótti furðu gegna, því að jeg bjóst við miklum mannfjölda á götunum í London. Þegar inn í bæinn kom var umferðin fullkomlega eins mikil og jeg hafði búizt við.

Jeg veit að þú býst við að heyra einhver stórmerkin frá London, því að þú hefir heyrt mikið látið þaðan. En stærð borgarinnar sjest ekki í fljótu bragði. Það er litlu mannfleira á götunni, en í Manchester, jafnvel þótt London sje tíu sinnum stærri eða meira. Það er talið svo til, að þar sjeu um $4^1/_2$ miljón íbúa, og er það rúmlega tvöfalt við alla íbúa Danmerkurríkis, en 62 sinnum eins margt fólk og á öllu Íslandi. Borgin hefir smátt og smátt verið að vaxa út fyrir smábæi, sem áður stóðu nokkuð fyrir utan hana. Þetta hefir flýtt fyrir að auka víðáttu hennar og mannfjölda. Víðáttan er núna viðlíka og stór hreppur eða lítil sýsla á Íslandi. Tems (Thames) fljótið rennur gegn um borgina, en meira af henni er þó fyrir norðan ána. Sá sem vill eitthvað fara um borgina, hlýtur því að flýta fyrir sjer með því að nota leiguvagna, allravagna, sporvagna og járnbrautir; annars getur hálfur dagurinn eyðst í göngulag. En sá sem vill nota þetta sjer til hagnaðar, verður að vera vel kunnugur. Níu fjelög eiga þær járnbrautir, sem liggja utan af landinu inn í London og eru þar 12 vagnstöðvar. Auk þess er borgarbrautin (Metropolitan

Railway). Hún liggur að mestu undir götunum í múruðum göngum og er því eins oft nefnd neðanjarðarbrautin (Under ground Railway). Hún liggur í hring um þann hlut borgarinnar, sem er norðan við fljótið. Brautin er tvöföld; á öðru vagnfarinu ganga vagnarnir alla leið sólarsinnis, en öfugt á hinu. Á þessari braut út af fyrir sig eru 18 vagnstöðvar. Tröppur eru gengnar af götunum ofan á stöðvarnar, og á þeim er dagsbirta, en í göngunum er annaðhvort ljósbirta eða niðamyrkur.

Leiguvagnar eru um 14000 í London, en um allravagna og sporvagna vissi jeg ekki, nema það er fjöldinn allur. Oftast vóru sporvagnarnir fullir af fólki og í hverjum vagni stóð þessi áminning með stóru letri: „Varaðu þig á vasaþjófum, körlum og konum“. Árlega er eytt hjer um bil 180 þúsundum króna fyrir að sáldra sandi á göturnar í London, til þess að hestarnir rasi síður á götugrjótinu.

Þegar Arnþór kom heim, fórum við á sýninguna. Það var að sönnu ekki nefnd sýning núna, heldur *The inventions* eða „uppfundningarnar“. Árið 1884 var þessi staður hafður til sýninga (Exhibition), þá var sýnt þar eingöngu það, sem gat verið heilsufari manna til bóta eða laut að því á einhvern hátt (sanitary exhibition); þar vóru þá sýndar tóvörurnar frá Íslandi.

Eitt af því sem jeg sá á sýningu þessari var eftirmynd af götu í London, eins og þær litu út fyrir 200 árum eða fleiri. Fornfáleg olíu eða lýsis ljósker báru daufa birtu á götuna; hún var lögð smáu hnullungsgrjóti. Húsin vóru sitt með hverju lagi; gaflar snöru víða fram að götunni líkt og stafnþil á íslenzkum torfbæjum. Nafnspjöld og auglýsingar á húsum og sölubúðum vóru með gamaldags letri. Í því var íslenzkt *þ*, í staðinn fyrir enskt *th* í greininum: *þe*, sem nú er ritað *the* í enskunni. Verzlarar í búðum þessum vóru klæddir búningi þeirrar aldar, sem við átti, og það sem merkast var, þeir verzluðu eingöngu með mörg þúsund ára gamlar fornmenjar. Kain Adamsson hefði getað reist sölubúð með sama varningi og hjer var hafður

á boðstólum. Það vóru eingöngu aldini, vínber og annað sælgæti úr jurtaríkinu.

Undra björt rafmagsljós báru birtu um allar byggingarnar á sýningu þessari, nema gömlu götuna, eins um garða þá og blómreiti, sem undir berum himni vóru, því að dimmt var orðið af nótt. Það var fagurt að sjá rafmagnljósin, er þeim var komið fyrir eins og þau væri blóm á vatnsplöntunum í keri nokkru í garðinum (kerið var tjörn gerð af mannahöndum), og vóru lamparnir eins oft á kafi í vatni eins og ofan vatns, en það hafði engin áhrif á ljósið.

Á einum stað í garðinum var vatnið látið streyma fram af hellubrún og mynda ofurlítinn foss. Undir foss þennan var raðað rafmagnslömpum. Ljósið brotnaði alla vega í vatninu og myndaði fagrar litbreytingar. Fegurst var samt að sjá gosbrunninn, ljómandi af mörgum lömpum, og skifti ljósið litum smátt og smátt, annaðhvort af því að jeg horfði á gosbrunninn frá ýmsum hliðum, eða litbreytingunni hefir verið komið fram með íþrótt. Lömpunum var komið þannig fyrir, að þeir sáust ekki, en báru skæra birtu á vatnsstrókinn og skreyttu hann öllum litum regnbogans. Það var óvenjuleg og fögur sjón í náttmyrkrinu. Stórar gufuvjelar hreyfðu vjelar þær, sem vöktu rafmagnið, en það streymdi eftir málmþráðum um allar byggingarnar, en þær eru stórar.

Maður nokkur á Íslandi bað mig, ef jeg ætti hægt með, að hitta fyrir sig mann í London, er Jones hjet, og reka lítið erindi við hann. Heimili hans átti að vera No. 10. Chiswell Street E. C. Arnþór er barnfæddur í London og líklega hálfþrítugur að aldri. Oft hefir hann verið í ferðalögum og á sveitabúgarði, en að öðru leyti hefir hann alið aldur sinn í London. Samt sem áður hafði hann ekki heyrt nefnt Chiswell Street, en af stöfunum E. C.[1] gat hann ráðið, í hverjum hluta borgarinnar það væri. Við lögðum af stað snemma dags til að leita; fórum nokkurn hluta leiðarinnar með borgarjárnbrautinni neðan jarðar í austur deildina, og

1) E. C. þýðir East City þ. e. austurborg.

fundum loksins götuna eftir margar fyrirspurnir. Í No. 10. var sagt að Jones væri fluttur í gestahús skammt þaðan, en þegar þangað kom var sagt að hann væri fluttur í enn annað gestahús; það var nefnt Þríhyrningur, í götu, sem nefna má Velli. Við lögðum enn af stað. Eftir margar spurningar og nokkurt göngulag fengum við þá upplýsingu, að betra mundi að fara nokkuð af leiðinni með járnbrautinni. Þá fórum við tvo áfanga með járnbrautinni, en þegar við loksins komum í götuna Velli, þá var þar ekkert gestahús sem hjeti Þríhyrningur, og hættum við þá leitinni við svo búið. Víst gengu einir 2 eða 3 klukkutímar í þennan eltingaleik, og má af því sjá, að það er ekki hlaupið að því að finna einn mann í London, eða jafnvel þótt minni borgir sjeu. Reyndar lítur svo út, sem þessi maður hafi logið til um bústað sinn seinast, til þess að villa um fyrir þeim, er kynnu að spyrja eftir honum.

Þegar við hættum að elta Jones, fórum við að skoða Westminster Abbey; það er afar gömul kirkja; þar eru grafnir flestir konungar og drottningar, sem verið hafa á Englandi og margt annað stórmenni. Þar má sjá marga gamla bautasteina og minningarmörk af ýmsu tagi, eitt var með ártalinu 1066 yfir Játvarði góða Englakonungi; hann dó það ár. Margt er þar og frá síðari tímum, svo sem marmaralíkan af lávarði Beaconsfield, stjórnfræðingnum mikla. Á hellu í gólfinu mátti lesa nafnið David Livingstone. Margir fleiri en við Arnþór vóru að skoða þann hlut kirkjunnar, sem auðugastur er af gömlum minningarmerkjum; maður nokkur fylgdi hópnum, sagði yfir hverjum bautasteinarnir væru og skýrði allt það merkasta, er þar var að sjá. Allt er húsið fremur stórkostlegt; ein hvelfingin er þannig tæpir tíu faðmar á hæð. Margt fleira er í kirkju þessari en hjer eru nokkur tök á að lýsa.

Í grennd við Westminster Abbey er Parlamentshúsið, en þar vóru engir fundir þegar jeg var í London, því að kosningar vóru fyrir höndum; skammt þaðan sá jeg obeliskann mikla: „Nál Kleopötru“ við Tems; þar er og Sfinx-mynd allstór. Jeg sá mjer ekki til neins að

skoða „nálina“ nákvæmara, því að jeg hefði ekki getað lesið egypzka letrið á henni. Þetta var í það eina skifti, sem jeg sá Temsfljótið.

Daginn eftir eða 30. okt. fórum við Arnþór að hitta mann þann, sem var ferðafjelagi hans á Íslandi fyrir nokkrum árum. Sá heitir Jón og er nú læknir í bæ einum ekki stórum, klukkutíma ferð frá London. Hann tók mjer svo vel, að það var eins og hann hefði heimt mig úr helju; það var farið að rifja upp æfintýri úr Íslandsferðinni, og Jón læknir rifjaði upp ýmsar sögur úr Eddu, sem hann hafði lesið fyrir löngu um Óðin og Þór, Baldur og Loka og fleira úr Eddu. Það var furða, hvað hann hafði lagt stund á slíkt, sem alls ekkert á skylt við embættisvísindi hans. Ekki er Jón skipaður læknir af yfirvöldunum, en samt hefir hann yfrið nóg að starfa; hann hafði ekki matfrið fyrir heimsóknum, þá stuttu stund, sem hann tafði heima í húsi sínu. Síðan fór hann út að vitja sjúklinga, og fór jeg með honum, til þess að geta betur talað við hann. Við ókum í lítilli kerru; hún var opin, og var þar að eins sæti fyrir tvo menn. Jeg gætti hests og kerru, meðan Jón læknir fór inn í húsin, og þurfti hann víða við að koma. Dagurinn leið, það fór að rigna, náttmyrkrið datt á og við vórum komnir spölkorn út fyrir borgina; okkur fór að verða hálfkalt, en Jón átti enn eftir að vitja margra sjúklinga í borginni og utan borgar, í gagnstæðri átt við það, sem við nú vórum komnir. Þegar við vórum á heimleiðinni í svarta myrkri, hellirigningu og hráslagakulda, segir Jón við mig: „Svona er nú æfin okkar lækna á Englandi“. Jeg varð eftir í húsi hans, en hann hjelt áfram vitjunarferðinni, og tók nú með sjer Arnþór vin sinn um stund. Eftir það tók hann sinn eigin vagnstjóra, til að ljúka vitjunarferðinni, og kvaðst mundu geta komið heim áður en við Arnþór þyrftum á stöðvarnar, en það varð ekki; við hlutum að fara þegar tíminn var kominn, og senda Jóni lækni kveðju okkar.

Jón er í fjelagi við tvo lækna með störf sín og borgum fyrir þau. Á hverju missiri senda þeir út reikn-

inga sína og heimta inn skuldirnar. Jón fær sjöttung af tekjunum, en fjelagar hans skifta jafnt með sjer $^5/_6$ hlutum af þeim. Jón fær minnst af því að hann er yngstur þeirra, og hefir haft minnsta æfingu. Þegar hann er búinn að vera í fjelaginu ákveðinn tíma, þá á hann að greiða þeim allmikla upphæð peninga, nokkur þúsund pund sterling, minnir mig, en eftir það skiftast tekjurnar jafnt milli þeirra þriggja í fjelaginu. Engin laun hafa þeir af almennafje, en samt hafa þeir allgóðar tekjur, af því að mannfjöldinn er svo mikill, jafnvel í hinum minni borgum.

Daginn eftir var laugardagur; þá fór jeg burtu frá London, en Arnþór vildi að jeg færi í leikhús með sjer áður en jeg færi. Jeg hafði einu sinni áður farið með honum í leikhús. Á laugardögunum er leikið miklu fyrri en endrar nær; það er byrjað kl. 2 og endað kl. 5, og kvað Arnþór nægan tíma fyrir mig, að fara til Cambridge eftir það.

Leikhús það, er við fórum til, heitir Prinsessu leikhús (Princesse's Theatre), og er það talið með þeim beztu af þeim 38 leikhúsum, sem eru í London. Efnið í leiknum var líkt og kemur fyrir í sumum enskum skáldsögum: morð, arfsvik og arfleiðsluskráin brennd, og skal jeg ekki orðlengja um það, en mjer virtist heldur vel leikið. Á einu leiksviðinu þekkti jeg útsýnið, sem jeg sá við Temsfljótið tveim dögum áður; þar sást „Nál Kleópötru“, Sfinx-myndin og fljótið sjálft. Þetta allt var málverk, en svo var það vel útbúið, að lognöldurnar á fljótinu vóru sýndar í hreyfingu, og meira að segja, það glampaði á þær, svo að það var engu líkara, en að fljótið væri þarna í raun og veru. Mjer hefir verið sagt, að þessu væri svo komið fyrir, að þeim hluta málverksins, sem sýnir öldurnar, væri komið í hreyfingu með ofur litilli vjel, sem er á bak við myndina. Liturinn á málverkinu og birtan, sem fellur á það, ollir því, að glampa sýnist slá á öldurnar.

Þegar komið var úr leikhúsinu, fór jeg með Arnþóri heim til hans, og fylgdi hann mjer síðan á járnbrautarstöðvarnar; jeg gisti ókeypis hjá honum meðan jeg var

í London og var þar ríkmannlega búið, einkum var húsið örlátlega úr garði gert; hann borgaði og allan kostnað minn í London og seinast farseðilinn til Cambridge.

Jeg var kominn á heimleið, er jeg fór frá London; þar var jeg lengst frá Íslandi, sem jeg komst í þessari ferð. Kaupmannahöfn er reyndar norðar, en hún er svo miklu austar á hnettinum, að hún er lengra frá Íslandi en London. London er því sú höfuðborg heimsins, sem næst er Íslandi, fyrir utan Kristjaníu og Edinborg, ef þær verða taldar með höfuðborgum.

Ferðin til Cambridge stóð yfir tæpar tvær stundir; það var komið um háttatíma þegar jeg kom þangað, en það er ekki mjög langt af stöðvunum heim til meistara Eiríks Magnússonar, en til þeirra hjóna var ferðinni til Cambridge heitið; hann bauð mjer að heimsækja sig, þegar er hann vissi að jeg var á Englandi.

Næstu 17 daga á undan, eða frá því að jeg fór úr Nýjakastala, varð jeg ávallt að tala ensku, og er þetta sá lengsti tími, sem jeg hefi orðið að vera með öllu án íslenzkunnar. Reyndar veitti mjer ekki erfitt að tala enskuna; sumir Englendingar, sem jeg talaði við, slógu mjer gullhamra fyrir það og furðuðu sig á því, hvað jeg hefði getað lært að tala vel ensku á Íslandi. Samt sem áður varð jeg því svo undarlega feginn, er jeg nú fjekk að tala móðurmál mitt; það var lík andleg tilfinning og sá, sem hefir steypt sjer á kaf í vatn, finnur líkamlega, þegar hann kemur úr kafinu og fær að draga að sjer andann. Það er líkt með móðurmálið og hið svalandi andrúms loft; þegar vjer hljótum að vera án þess, þá finnum vjer hversu það er oss dýrmætt og ómissandi. Margur mun sá maðurinn, sem alls eigi hugleiðir, hve mjög hann elskar land sitt og þjóð, fyrri en hann er búinn að yfirgefa hvorttveggja; þá finnur hann það fyrst; það er tungumálið, sem segir honum það. Ef hann svo lærir útlenda málið að nokkru ráði og með þeirri hugsun að bæta sitt eigið mál, þá verður það hreinna eftir en áður; hann sjer, að það hafa ýms út-

lend orð og talshættir komizt inn í mál hans, án þess að hann viti, en nú getur hann betur forðazt það.

Meistari Eiríkur og frú Sigríður tóku mjer mæta vel; jeg var hjá þeim þrjár nætur, og var farið með mig eins og jeg væri aldavinur þeirra. Það er bæði skemmtilegt og fræðandi að tala við þau, og furða er, hve þau eru nákunnug öllu því, er fram fer á Íslandi, svo strjálar sem samgöngurnar eru. Í þetta sinn var frú Sigríður nýlega komin frá Íslandi með blöð og brjef, og fjekk jeg því í Cambridge frjettir af ýmsu, er fram hafði farið á Íslandi eftir að jeg fór þaðan. Íslenzku tala þau eins og þau hefðu stöðugt verið á Íslandi, og þótt enskan sje nú orðin nær því sem annað móðurmál þeirra, þá er samt auðheyrt, hvor tungan á móðurrjettinn yfir þeim. Tryggð þeirra til föðurlandsins er svo þjóðkunn, að mín orð geta þar litlu við aukið. Hver sá, sem talar við þau munnlega, sannfærist um, að ekki hefir verið ofsagt af föðurlands ást þeirra, enda þarf ekki sögn til; „verkin sýna merkin“.

---

Reyndar ætlaði jeg að segja þjer greinilega frá ferð minni heimleiðis, en atvik banna mjer að skrifa meira að sinni. Á heimleiðinni kom jeg við í Sheffield, Manchester og Bradford; þar heyrði jeg fyrirlestur um Ísland, og er það mjög eftirtektavert að heyra, hvernig talað er um Ísland og Íslendinga á bak; hjer var talað vel um þá. Þar sá jeg prjónvjel, sem nefnd er: *Jabez Smith's „Universal“ Knitting Machine*, og jeg hefi minnzt á í ritgerð minni „Um ull“ í Andvara þetta ár. Nú get jeg bætt því við það, sem þar er sagt, að jeg hefi skrifað smiðnum og beðið hann um upplýsingar. Hann hefir svarað og álítur, að hver sá, sem nokkuð hafi áður fengizt við prjónvjelar, muni hæglega geta notað hana. Bók, með fyrirsögn um notkunina, fylgir hverri vjel, og þætti enn eitthvað athugavert, þá kveðst smiðurinn fús á að gefa brjeflega þær upplýsingar, sem

um verði beðið. Ef einhver á annað borð ætlar að kaupa prjónvjel, þá væri vert að reyna þessa. Frá Bradford fór jeg til Liverpool, Nýjakastala, Kelso, Edinborgar og Leith; þaðan fór jeg með póstskipinu til Færeyja og Reykjavíkur. Á þessari leið var enn margt nýtt að sjá. Ef jeg frjetti, að þú hafir gaman af þessu brjefi, og ef ekkert verður því til fyrirstöðu, þá má vera, að jeg sendi þjer framhaldið seinna, einkum hygg jeg að þú hafir gaman af að heyra dálítið um Reykjavík, því að þar muntu ekki hafa komið.



# Bókaverzlun
# Kristjáns Ó. Þorgrímssonar

hefir til sölu meðal annars þessar bækur:

| | |
|---|---|
| **Helgi Thordersen**, Húspostilla, óinnb. | á 6.00 |
| innb. | - 8.00 |
| **Vídalíns** postilla í bandi | - 6.00 |
| **Jónas Guðmundsson**, Hugvekjur frá veturnóttum til langaföstu, innb. | - 2.50 |
| **M. Stephensen** og **L. E. Sveinbjörnsson**, Lögfræðisleg formálabók | - 3.75 |
| **H. Hálfdánarson**, Barnalærdómskver, innb. | - 0.60 |
| **M. Jochumson**, Ljóðmæli | - 4.00 |
| **Jón Þorláksson**, Ljóðmæli | - 3.00 |
| **Dr. Wimmer**, Málfræði | - 1.25 |
| **Shakspeare**, Hamlet | - 0,80 |
| **Shakspeare**, Stormurinn I.—II. (frumtexti og þýðing eptir Eirík Magnússon) | - 3.00 |
| **Svanhvít**, nokkur ljóðmæli | - 0.75 |
| **Pingel**, Madvígskan | - 0,35 |
| **Jón Ólafsson**, Stafrófskver, innb. | - 0,40 |
| **H. Kr. Friðriksson**, Stöfunar- og lestrarkver 3. útg., innb. | - 0.70 |
| **Þórður Thoroddsen**, Reikningsbók, 2. útg., innb. | - 0.85 |
| **Benedikt Gröndal**, Forskriftir | - 0.50 |
| **Steingr. Thorsteinsson**, Dönsk lestrarbók, 2. útg., innb. | - 2.50 |
| Ljóðmæli Bólu-Hjálmars | - 1.00 |
| Gullþóris saga | - 0.70 |
| Gunnlaugs saga ormstungu | - 0.70 |
| Droplaugarsona saga | - 0.50 |
| (Séu allar þessar 3 sögur keyptar í einu, seljast þær fyrir 1,50, annars enginn afsláttur). | |
| **J. Jónassen, Dr.**, Lækningabók, hept 3 kr. innb. | - 3.75 |
| ——————— Hjálp í viðlögum, innb. | - 1.00 |
| **Jóns lagabók**, innb. | - 3.00 |
| **J. Hjaltalín**, Hjúkrunarfræði | - 1.00 |
| nokkur önnur rit Hjaltalíns með niðursettu verði. | |
| Landsyfirréttardómar 1882 á 65 a., og 1883 | - 1.00 |
| Saga hinna tíu ráðgjafa | - 0.70 |
| Alls konar ritföng o. fl. | |

Rvík, 10./6. 1886.

